# KVÆÐI

OG

# NOKKRAR GREINIR

UM

# SKÁLDSKAP

OG

# FAGRAR MENNTIR

EPTIR

B. GRÖNDAL.

---

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTAÐ HJÁ S. L. MÖLLER,

Á KOSTNAÐ EGILS JONSSONAR.

1853.

# INNIHALD:

Bls.

# Nótt.

Was von Menschen nicht gewusst,
oder nicht bedacht:
durch das Labyrinth der Brust
wandelt in der Nacht.

*Goethe.*

---

Blíðlega svífur um bylgjandi straum
með blæjurnar fögru og tælandi draum
nóttin í vestri, og vefur í ró
vonsæla tárið, er birtunni dó.

Með stjörnum hún vefur hinn straumbláa dúk —
og starðu' á hann, meyja, í hjartanu sjúk; —
má nokkuð á jörðunni færa þjer frið,
ef friðsæla nóttin ei veitir þjer grið?

Og fegurst er rósin, sem fræið er á,
þó fylgi því dauðinn, er hana mun slá;
og fegurst er stjarnan um frostheiða stund,
þó fönnin ei eigi sjer blóm eða lund.

Svo verður og heitust sú vonin og stærst,
er velur sjer bústaðinn hættunni næst;
og ástin er sætust, er saknaðar tár
með sorgdöggu væta þær harmþrungnu brár.

Og komdu með geislann, er gulllega skín,
þú glitrandi máni, — en vindurinn hvín,
og jakarnir þjóta um æfinnar ós,
og yndinu spilla, og fela þitt ljós.

Í hvert sinn, er morguninn blikar á blóm,
og bárurnar deginum fagna með hljóm:
þá vakna jeg, til þess að megi jeg, mær,
minnast á þig, sem ert fögur og skær!

Og hvert sinn, er álfröðull sígur að sæ,
og svefngrasið hallast í kvöldskugga blæ:
þá sofna jeg líka, og líð svo um geim,
og lít þig þá, meyja, í draumanna heim.

---

# Fölnuð rós.

Et rose, elle a vecu ce que vivent les roses:
L'espace d'un matin — —

*Malesherbes.*

Hvert ertu svifin sjónum frá —
meyja, sem fyr hjá mönnum dvaldir,
en mærast nú þitt skrautið faldir —
hvar má þig nú í heimi sjá?

Himinsins fram í ljóma lá,
á leiptrageislum logatærum —
í ljósablæjum daggarskærum
leiðstu sem engill foldu frá.

Burt ertu flogin blossum á
niðandi strauma norðurljósa,
nú máttu betra sigri hrósa
en þeir, sem gráta gröfum hjá.

Ekki skal gullna rista rún,
nje skraut um þig á skjaldar ljóma,
nje skæra söngva láta hljóma
um þig, sem býr á drauma dún;

En vjer sitjum og söknum þín. —
Sakleysis yndið sælla drauma,
sofandi blómið æfistrauma
hylur nú mold, og hjúpar lín.

Sofðu í friði og sælum blund,
dýrðlegra vafin drauma öldum
þó dynji hríð á vetri köldum,
unz mær þig vekur morgunstund.

---

# Heim.

Iamque viam suadet Boreas, flatuque secundo
Carbasa mota sonant, iubet uti navita ventis!

*Virg.*

Yfir öldu bláa,
yfir tinda háa,
    svanni, sendi jeg huga minn!
Bið jeg blíða vinda
úr björtum skýja-linda
    að kyssa mæra munninn þinn.

Ef jeg valur væri,
um víðan geim jeg færi
    hart og fjörugt heim til þín;
nú er jeg frá þjer farinn
og fundi þínum varinn,
    silkimjúka silkilín!

Man jeg gullið góða,
gleði og vangann rjóða,
    sem jeg kyssti áður opt; —

núna beljar bára,
brúður ægis tára
dapurt upp í drunga-lopt.

Man jeg munninn mæra,
man jeg ennið skæra,
man jeg kinn og hvíta hönd;
man jeg munarhljóminn,
man jeg ástarróminn,
man jeg ljóstær lokka-bönd.

Fagna jeg okkar funda,
er færist vísir stunda —
birtir lopt og lagar stig;
þegar jeg svíf um sæinn,
og seinast kem í bæinn,
kæra mey, að kyssa þig.



# Þorgrímur Tómasson Thomsen.

Sjerðu' ekki skæran löginn lífsins renna
með lík í faðmi' að ströndum dauða-heims?
sjerðu' ekki fagrar aldinbjarkir brenna
í blossatárum dapurs harma-geims? —
heyrirðu' ei öldu dimmum rómi drynja,
og deyja svo, við hjartans veika rót?
heyrirðu' ei lífsins gleði-strengi stynja,
er sterkum dauða taka þeir á mót?

Líturðu' ei stundum stjörnu í dauðans bárum? —
hún stendur ein, en ljómar björt og skær; —
sjerðu' ekki' á vegi, sollnum harmatárum,
suma, er himinsólin gleði fær?
Heyrirðu' ei stundum, gegnum dimmar dunur,
er dauðinn vakið fær á hjartans slóð,
og gegnum eymd og ekkaþrungnar stunur,
einstöku fagurt kvaka gleðihljóð?

þeir hinir fáu', er kunna lífsins leiðir,
þeir ljóma svo, og þeirra rödd ei deyr;
en þeirra frægðar-götur ekki greiðir
gull-letrið ætíð, eða þess kyns meir; —
þeir vissu, hversu veginn skyldi kanna,
hvar vegleg mundi ljóma þeirra dýrð —
þeir völdu hug og hjörtu góðra manna:
og heimi bezt var frægðin þeirra skýrð.

Dáinna hetja dýrðarljóss að minnast,
er dýrra æ, en vera lyddum með; —
tökum því dæmin, þar sem dæmin finnast,
því dæmin eru' af guði sjálfum ljeð; —
að skoða menn, og skilja þeirra anda —
vjer skulum reyna, hvert það margur kann,
og samt um leið í þungri stjett að standa
með stöðugleik og afli, eins og hann.

Svona var Þorgríms íturfagur andi:
ágætur, hreinn, og vizkusnjall um leið;
þó stundum svifi af harma- hljóðu landi
hreggþrungnir mekkir fram á lífsins skeið:
þá eyddi hann þeim með eigin vizku ráðum,
því anda heimsins sá og skildi hann,

og brynjaði sig með gleði, dyggð og dáðum
er drepa vonzku, og sigra heimskingjann.

Góðverk og fegurð, gleði og vizku ljómi —
getur það fundizt einum manni hjá? —
dugnaður, afl, og dyggða fríður sómi,
dróttir er sjaldan einstakt litið fá? —
Vjer hælum ei, en satt ef skulum segja —
því sannleikinn er stundum eins og hól —
þá hefði hann frá oss aldrei átt að deyja,
því öllu þessu skrýddi hann guðdóms sól.

Þú maður, sem að lest í þessum ljóðum,
er leiddust fram af sorg við dauða hans —
ef anntu hlutum ágætum og góðum,
ef anntu nokkuð gæfu föðurlands;
ef anntu sæmd og ættarhringnum fríða,
ef anntu heill og sæld um jarðar rann:
þá óskaðu þjer af alhug þeirra tíða,
að allir gætu lifað eins og hann.

## Kvöld.

O qui perpetuâ mundum ratione gubernas
Terrarum caelique sator, qui tempus ab aevo
Ire iubes, stabilisque manens das cuncta moveri!

*Buchananus.*

---

Í hafið sólin hnígur
um himinstjarna göng,
og niður í strauminn stígur
við stilltan bylgjusöng.

Nú hnígur niður húmið
og hverfur land og ey,
og sezt á svefna-rúmið
með slegnu hári mey.

Og bóndi í bænum lága,
að blunda tekur nu,
og sjóli í salnum háa
vill svefna kanna bú.

Og blómin blíð á vengi
nú beygja höfuð sín,
nú vakir eptir engi,
er ekki sólin skín.

Á draumablæjum bláum
hin blíða sefur mær,
í ástargeisla gljáum,
sem gamnað henni fær.

Og allir svona sofa,
við svefnsins mjúkan arm;
í höll, sem hreysi-kofa,
á hvíldin stað í barm.

En tvo jeg veit, sem vaka,
og væran blund ei fá; —
mun bölið báðum þjaka,
og bægja svefni frá?

Og sorgin annan eltir,
og unaðs hrekur draum,
á hvílu hann sjer veltir
í harma þungum straum.

En hinn ert þú, sem heldur
um himingeiminn vörð,
og lífi voru veldur,
á víðri manna jörð.

þú opið augað hefur,
og aldrei lokar því,
og aldrei svefni sefur,
þú sjóli heimi í.

Og hljómi' í harma straumi,
og hljóði', er jörðu deyr,
og geisla í dimmum draumi,
og dauðaþyt í reyr;

Og hverri hrönn, sem stígur,
og hverrar stjörnu ljós',
og hverri sól, sem hnígur,
og hverri engjarós;

þú vakir öllu yfir,
og öllu vernd mátt liá;
því allt hjer í þjer lifir,
og í þjer hrærast má.

# Stúlkuvísa.

Delightful praise! like summer rose,
That brighter in the dewdrop glows
The bashful maidens cheek appeared —

*Walter Scott.*

Ástin og yndið mitt bezta,
og elskan mín góða!
söng vil jeg fremstri þjer færa
af fríðustum meyjum;
mörg hefur meyjan í heimi,
munnfríð og handhvít,
blossað með blikandi ljóma,
en bezt ertu allra.

Varla jeg voga að segja
veglega hljóminn
nafnsins, sem öllum er ofar
inndælum meyjum;
það hafa gyðjurnar gefið
á gróanda vori,
og glaðar látið þær glymja
á gullnum strengjum.

Hvert sinn, er hugsa jeg um það,
    hjarta mitt skelfur:
allt eins og blómknappar bifast
    í blænum á morgni,
eða sem geislarnir gullnu
    frá glóandi sólu
glaðir bærast á báru
    bylgjandi strauma.

Þegjandi læt jeg í ljóðum
    ljóma þitt heiti;
mynd þín í döfsælum draumi
    dýrðlega leynist;
optar jeg hugsaði um það
    en ögn er á sandi;
gef mjer nú koss fyrir kvæðið,
    kossblíða meyja!

---

## Minning.

— Fuit aut tibi quidquam
Dulce meum —
*Virg.*

Allt eins og sól um bláan boga
blikandi dreifir geisla lá,
eða sem stjörnur ljósar loga,
lítandi nið'r á djúpan sjá,
eða sem mána mildast ljós
mænir um nótt á fölva rós:

Eins finnst mjer tindra augað brúna,
unað vekjandi á lífsins gröf;
allt eins og fjallið fönnum búna,
fríðlega ljómar brjósta döf,
og ástarhljómur er þar mær,
undir því meyjarhjarta slær.

Og ef að blæju dökkri dauði
dapur mig vefur fyr en þig,
þá er það betra öllum auði
og eptirmælum um látinn mig:

ef að þú ljetir ljóma tár
á leiðið, þar minn hvílir nár.

En ef hann mínum sviptir sjónum
sætasta mynd, sem hjer og leit,
og tekur þig af foldar frónum,
fríðasta mey, svo ástarheit:
þá skal jeg láta glymja grát
á gullhörpustrenginn við þitt lát.

# Sálmur.

— — — cum dispositi quaesissem foedera mundi,
praescriptosque maris fines, annique meatus,
et lucis noctisque vices: tunc omnia rebar
consilio firmata dei, qui lege moveri,
qui variam Phoeben alieno iusserit igne
compleri, solemque suo porrexerit undis
litora, tellurem medio liberaverit axe.

*Claudian.*

---

Spegill veraldar herrans hár,
himin og sjórinn blái,
og grund, sem lætur gleðitár
glitra á blómgu strái:
minntu oss æ á ljósa leið
lofðungsins heims, og dýrðar skeið,
en þótt það enginn sjái!

Lítið á stjarna háan hring
heiðum á skýja feldi, —
sólkerfa' og hnatta sameining,
setta með geisla-eldi:
almættis sjest þar ógna-dýrð;
endalaus er hún bæði og skýrð
eilífðar víðu veldi.

þegar hin glæsta og gullna sól
glóir á boga háum,
frjófgandi gjörvallt foldar ból,
fögur í ljóma gljáum:
þá sjerðu drottins dýrðar-náð,
sem dreifist yfir haf sem láð,
öflugum eins og smáum.

Hugsirðu um vetur, vor og haust,
og varman sumars gróða,
allt sem að breytist endalaust
með ís og blómann rjóða:
fjórskipta sjerðu lífsins leið;
lánast hún fáum björt og heið;
svo vildi guð hins góða.

Lítirðu skæra leiptra glóð
ljóma á dimmum geimi,
um leið og þýtur þrumuhljóð
þungum með raddar-eymi:
hugsaðu þá um blossans bál,
sem beygði fyr og skelfdi Sál,
og guðlausan hvern í heimi.

Og þegar marar bylgjan blá,
búin með silfurfaldi,
hefst upp og sígur hafi á,
himinsins undir tjaldi:
mundirðu þá ei hugsa um heim,
hýran, en veilan hverjum þeim,
hann fyrir vin sem valdi?

Lítirðu sól að legi blám
líða í öldu-glaumi,
og hverfa nið'r af götum gljám
geislandi fram að straumi:
þá sjerðu drottins þægan þjón,
þreyttan við heimsins lán og tjón,
svífa að sælu draumi.

# Ástarkvæði.

Das sind die alten Klänge,
Helden und Klaggesänge
Aus ferner Riesenzeit.

*Fr. v. Schlegel.*

Heil sjertu, algleymis ást, sem átt þjer bústað í draumi!
þú, sem að blæjuna blá breiðir um daganna veg!
þú, sem að blundar á beð í brunandi strengjanna hljómi!
hissa svo guðirnir gá glæstum af himnanna reit!
Gengna gráta þeir tíð, þegar gullhærð Kýpris á beðnum
áður við Aresar hlið ástar í drauminum lá!
Aldregi aptur snýr sá aptan, er ofan af himni
dýrðleg Díana hvarf, drenginn að kyssa í lund!
En á dveljandi dögg á daganna eilífa blóma
allt af speglar sig enn yndið af horfinni tíð.
Amor veikastur var af voldugum himnanna goðum,
en hans verk lifa enn, eilíf og stöðug á jörð.
Eitrið úr örvunum fór í andann á sjerhverjum manni;
syninum faðirinn fjekk fenginn, og átti hann samt.
Tíðar hverfandi hjól, með hækkandi' og lækkandi straumi,

líður um loptbláan veg — líður, og fæðist, og deyr.
Enn eru kælandi kvöld, og kossar og munnarnir rjóðu,
enn eru augu og ljós undin í skjálfandi draum;
Enn er hin tælandi öld, og enn lifa svannarnir góðu,
enn lifir yndisleg rós, æfinnar döggvuð í straum'.
Enn lifir mittið á mey, sem marga svo langar að spenna.
Farðu nú farsæll og vel, fallegi lesari minn!

---

# Lífið.

Nostra brevis veloxque aetas, et plena laborum!
*Martialis.*

---

Undarlegt sambland af sælu og kvölum
og svefni og vöku, er lífið á jörð!
ýmist er sólskin í döggvuðum dölum,
dynjandi hríð, eða illviðri hörð.

Undarlegt sambland af elsku og hatri,
einfeldni' og kænsku, og löstum og dyggð
er lífið, og bezt mun að synda í snatri
um sauruga pollinn að ljósheima byggð.

Hinn góði sig felur, en fanturinn ljómar
í falslegri dýrð upp' á lýginnar sal; —
það hjálpa ei gæzkunnar hugsanir tómar,
ef hann þær ei fella í leirugan val!

Hinn góði sig felur, en fanturinn lýgur,
og friðskildi undir hann geymir sín brögð;

og optast nær vel hann úr smáninni smýgur,
því sást ekki brautin, af djöflinum lögð.

Og falli hinn góði, þá flennast út munnar,
og fallbylur ámælis dynur á hann;
en dyggðirnar fantanna drótt eru kunnar,
sem dæmi þær ljóma á jörð fyrir mann.

En svo hefur tilskipað sælunnar faðir,
að sæluna veiti ei líkkistan ein;
hann veitti oss annað, svo gætum vjer glaðir
gengið um lífið, og þolað þess mein.

Hann byrlaði veigar með blossandi ljóma,
en blandaði samt þær með unað og kvöl;
og fallega stillti hann strengjanna hljóma,
þó stynji þeim undir hið dimmleita böl.

Því kossa vjer drekkum af meyjanna munni,
og munaðarsæt þykir elskunnar skál;
vjer sorgunum gleymum að sælunnar brunni,
er sitjum vjer heitir við kinnanna bál.

Og orðin svo fagurt í eyrunum hljóma,
er yndisleg mær beygir svanhvítan háls —

og fagurt er brjóstið í fannhvítum ljóma,
og fríðlega þakið með dúkunum táls; —

Þangað til dýrðlegi draumurinn eyðist,
og dísin að mönnunum glottir, og hlær. —
Og fár mun sá vera, er lífið ei leiðist,
og langar að gröfinni standi hann nær.

---

# Laufaspá.

Oh! the days are gone.....
When my dream of life....
Was love!

*Thomas Moore.*

Hjer hef jeg stundum legið lengi
og liðið drauma vængjum á,
og bjartleit lesið blóm af vengi,
og blöðin tekið knöppum frá:
til þess að vita það um þig,
hvort þýðast, mær, þú vildir mig.

Og hvert eitt lauf, sem hnje til moldar,
hljómaði fögrum dauða-klið,
því vegna þín það fjell til foldar,
og fegurðarheiminn skildi við —
en þó það eyðist, aptur þá
inndælla rís það gröfum frá.

Því hvað fær dáið, meyjan mæra!
sem munarfegurð þína veit?

því ein má lífsins löginn færa
lúinni önd í jarðar reit
þinna rósvara skærust skál,
skrýdd með brennandi kossa tál!

Sem elding liðu stuttar stundir,
er stjörnuljómi auga þíns
ljek fyrir mjer svo inndælt undir
úrsvölum bogum himna hrings;
hvert augnablik sem eilífð er,
þá ekki, mær, þú skemmtir mjer!

---

Til

# Jóns Sigurðssonar,

alþingismanns.

12. Aug. 1851.

Sungið í skilnaðarveizlu þjóðfundarmanna.

In natis patrum est virtus, fortesque creantur
Fortibus, et nullas aquilae genuere columbas.

*Horatius.*

---

Fyrr en oss skilur skapa-stund —
skínandi þó í vonar ljóma —
bíðandi nú í dvalar dróma —
hún, sem að elur okkarn fund:
þá verðum til þín vjer að líta,
vænstan sem elur landið hvíta;
þú, sem að kallar saga sanns:
sverðið og skjöldinn Íslands!

Áður en burt þjer förum frá,
fríðra vjer skulum minnast daga;
þegar oss veitti sælu Saga:
oss þegar ljet hún alla sjá

þann, sem að hafði þjóðin kosið,
þrældómnum sýna frelsis-brosið:
hann, sem að kallar saga sanns:
sverðið og skjöldinn Ísalands!

Allir, sem feðra elska láð,
allir, sem líta snjófga tindinn,
þar sem að hreina himinlindin
elur sig myrkt við mökkva gráð:
þeir skulu allir þakkir færa
þjer, sem að frelsisljómann skæra
vaktir, og kallar saga sanns:
sverðið og skjöldinn Ísalands!

# Gullörn og Bláfugl.

Vois, ce spectacle est beau!

*Victor Hugo.*

Gekk eg út' í skógi, en komið var kvöld,
og koldimman ljek sjer við geislandi tjöld;
því sólin var að hníga í hafbláan reit,
og hljóðlega nóttin á jörðuna leit.

Sólin var að hníga, og hneig ekki þó,
og hverfandi geisli þá fæddist og dó;
og ljósið var að deyja, en dauðinn kom þó ei,
og dýrðlegur var roðinn, eins og kinnar á mey.

Og ljósið var að deyja, og dýrðlega brá
draumageisla' á laufin með glitrandi lá; —
leit jeg upp á greinar, sem blöktuðu í blæ,
bornum yfir heiðbláan, heiðbláan sæ.

Leit jeg upp á greinar, og leit þar skrítna þjóð:
litfagra söngfugla, rauða sem blóð,
gula, svarta, hvíta, og græna og blá;
glóðu þeir í laufi, sem eðalsteinar smá.

Gula, svarta, hvíta — nei, enginn þeirra' er minn;
ekki lízt mjer á þig, hópurinn þinn!
fagurt gullu hljóðin í fuglanna sveim,
fegri' en gígjustrengir í mannanna heim'.

Fagurt gullu hljóðin, en fegurst söng þó sá
fuglinn, sem jeg leit þar, með kambinum á;
fagurt mundu litirnir ljóma í sól,
og ljósahafið bylgjaði' um himnanna ból.

Fagurt mundu litirnir ljóma um hann;
ljósbláir, sem alda í hyldjúpum rann';
dökkbláir, sem himininn um heiðskæra stund —
hann sá jeg um kvöldið í þögulum lund.

Dökkbláir, sem himininn, og dýrðlega skein
dálitlum á fuglinum litarprýðin hrein;
blár var hann að framan, en bakið dekkra þó,
bustaði hann fjaðrirnar með nefinu, og hló.

Blár var hann að framan, já, blár eins og Hel;
og blár var hann á kviðnum, en það sá jeg ei vel;
en það sá jeg, að fuglinn var kátur, og kvað,
og kunni það allt utan að, sem hefði hann blað.

Og það sá jeg, að ekkert hann af vissi mjer,
því óskaplega á kvistinum dintað' hann sjer;
og upp undir hann margopt jeg glögglega gat
gotið mínum augum, þar uppi sem hann sat.

Jeg sá, að það var kvennfugl, svo blíður og blár;
blíður eins og dúfa, og stilltur eins og már;
og þó hann væri einlitur, alla vega þá
á honum voru litir úr geislandi lá.

Fagurlega hljómuðu fegurstu hljóð,
fögur eins og söngvar á himnanna slóð;
þetta gerði fuglinn, svo blíður og blár,
beint var á honum nefið, og fóturinn smár.

þetta gerði fuglinn, að hefja þenna hljóm,
og himinblærinn þagði við söngfuglsins róm;
kvakaði' hann í lundi, en kvöldsólin skein,
kvakaði' hann um ástir, og meyju og svein.

Kvakaði' hann í lundi, en hinir heyrðu á,
og hissa sátu þegjandi fuglarnir smá;
aldrei fyrri heyrði jeg svo yndislegan söng,
eins og fuglinn blái kvað um skógarins göng.

Svona var hann að dinta sjer í djöfulsins gríð,
að dinta sjer með lætin og ólætin fríð —
veiztu hvað jeg sá þá? — hin svásasta sjón
sveif á breiðum vængjum um geislanna frón.

Örn var það, svo mikil og ákaflega stór,
að allan skyggði' hún himininn, hvar sem hún fór;
sólin rann í æginn, en samt var svo bjart,
að sólarljóssins þurfti ekki, slíkt var hennar skart.

Sólin rann í æginn, og undarlega skein
ein og sjerhver fjöður á örninni hrein;
breiða þandi' hún vængi, sem bogar í sal
bungast yfir gólfi, og himin yfir dal.

Saman lagði' hún vængina', og settist á meið;
silfurblágyllt iða um fjaðrirnar reið;
ljek sjer þar hin margbreytta litarskrúða fjöld,
ljómandi sem bárur í geisla um kvöld.

Rauð var hún á brjóstinu, sem rósin í dal;
rósin merkir ástir í hjartans dimma sal;
ástin á sjer heimkynni' í brjóstinu blíð,
brennandi sem eldur, en fögur og þýð.

Blá var hún um hálsinn, sem bylgjan á sæ;
blá er líka gleðin, og ljómandi æ;
iðuðu þar geislar, sem ljósfögur lá
logastrauma hverfist um himininn blá.

Hvítan hafði' hún fjaðrahjálminn höfðinu á,
hvítt er líka sakleysið alvaldi frá;
veiztu', að það er hjálmurinn sterkari' en stál,
en sterkastur á börnum, sem ekki hafa mál?

Grænir voru vængirnir, grænir eins og lauf?
græn er líka vonin, sem dimmuna rauf;
á henni vjer fljúgum í upphimins sal,
eymdir þó að vaki í sorganna dal.

Yfir henni geislaði glóandi dýrð,
glóandi sem morgunsól, í austrinu skírð —
ekki er meiri blossadýrðin alvaldi nær,
en þótt sankti Jóhannes það segi', að hún sje skær.

Svona var nú örnin; hún settist á meið —
sólarbjartur ljómi um jörðuna reið;
fegurst var hún öllum af fuglum um heim,
finna má ei jafningja sprakkanum þeim.

Dökku renndi' hún auga um dýrðlegan sal;
dimmt var það og hvasst, eins og brandur á fal;
eins og þýtur elding um uppheima veg,
eins var hún snareyg, og há og tignarleg.

Leit hún ofan á hópinn, sem horfði hana á;
hissa voru fuglarnir þessa dýrð að sjá; —
leit hún ofan á söngfuglinn, er sætlega kvað,
og snerti hann með nefinu; fallegt var það!

Leit hún ofan á söngfuglinn, og sagði um leið:
sæll vertu, bláfugl á laufguðum meið!
dýrðarlega kveðurðu draumasönginn þinn,
en dintaðu þjer ekki svona, bláfuglinn minn!

Sjerðu ekki manninn þarna, meiðinum hjá?
maður er þar, bláfugl, og hlustar þig á;
samt ertu að dinta þjer og gala í gríð,
geturðu þó haldið, að lætin þau sje fríð?

Hætti litli söngfuglinn að hljóma um ást —
hætti hann, og færast upp að örninni sást;
fór hann undir vængjanna verndandi skjól,
og volduglega örnin þá bláfuglinn fól.

þá leiptraði' í himninum ljósbogarák,
þá leit jeg burtu flýja bæði höggorm og snák;
ag allt það sem að ljótt var, það lagði á stað —
að líta himinljómann ei vogaði það.

þá glumdi og dundi í loptinu' um leið,
og logablæjur glæstar sjer renndu á skeið —
en bláfuglinn og örnin í birtunni fló
á burtu hvor með öðrum, og hvorttveggi hló.



# Bogi Brynjúlvsson Benedictsen.

Skoðaðu leiðið hið lága:
þar lifa nú blómin,
en á haustinu hvína
þar hretin um stráin;
barnið blundar þar undir
sem brosti áður,
og gladdi grátfagra móður
og góðan föður.

Nú sefur brosandi Bogi
á beðinum væra, —
dreymir um lífið sitt liðna
á landinu horfna.
Helðurðu' hann minnist þess, móðir!
og muni það gráta? —
Sannlega segi' eg þjer, blíða,
hann saknar þess ekki.

Áður svaf brosandi Bogi
á beðinum væra
dvalar í draumsætum öldum,
og dreymdi um engla,
og um landið hið ljósa,
sem lögurinn girðir
dökkum og bungandi bárum,
og bláum straumi.

Nú hefur brosandi Bogi
á beðinum væra
beðið, að lausnarinn ljúfi
lófa sig snerti:
"vaknaðu, barnið mitt blíða,
úr blundinum höfga,
þú munt á ljósara láði
leika þjer síðan".

Vaknaði brosandi Bogi
úr blundinum þunga,
og leið á ljósum vængjum
um loptið bláa;
frelsarinn faðmaði Boga
í friðarins ljóma,

og flutti hann burt frá blundi
til bjartari landa.

Nú leikur brosandi Bogi
á blómskrýddu engi,
búinn með bjartari klæðum,
en bar hann fyrri;
sannlega hvyrfi þjer sorgin,
ef sæirðu' hann, móðir!
þar sem hann líður og leikur
með ljómandi englum.

# Kvæði.

Fuimus Troes!

*Virgilius.*

Hver situr uppi' á háum hamra-tindi,
og horfir fram á öldu þrunginn sjá,
er hreifist fyrir svölum vestan-vindi,
og veltir báru marar djúpi á,
en hnjúka gyllir bjartur ljóma-lindi,
sem leggur blárri sólarhvílu frá? —
hver situr þar, og horfir grátnu auga
um hauðrið mitt, sem Atlants bárur lauga?

Hver ertu, mynd! sem mæki þungan skekur,
svo möndull skelfur himinrjáfurs við?
hver ertu, mynd! sem myrkrið burtu hrekur,
og mökkva blæju', og lýsir kletta við?
hver ertu, mynd! sem hjörva niðinn vekur,
og horfir eptir löngu dauðum sið?
því hverfist ský um heljarfölva kinn,
er horfir augað upp á jökulinn?

„Fyrr svifu ernir fölvum yfir náum,
„sem flöktu í sárum, lagðir blóðgum dör;
„og þytur dundi fyrir geirum gráum,
„og glumdi' á skildi stáli slegin ör. —
„Frelsið og dauðinn bjuggu' á björgum háum,
„og banadísin skyggðum veifði hjör;
„og glaðar bárur kysstu kaldan sand:
„þá kusu hetjur bú um Ísaland."

„Þá dundi bjarg af dimmu skjaldarhljóði,
„og dauðastunum hásum barka frá;
„og röðull skein á öldu, blandna blóði,
„sem breiddi faðminn móti köldum ná;
„og vindur barst með döprum dauða-óði,
„sem dimmri stunu kvað við engja-strá;
„en eygló samt á rjóðar rósir skein,
„og röðull ljek sem bylgja á akurrein."

„Því frelsið lifði, fáðum stutt af málmi,
„og fríðum skildi' og þungri orrastöng;
„og sólin glóði glæstum yfir hjálmi,
„og gjörvallt landið kvað þá frelsis-söng; —
„þá hvein í ör af hörðum Gunnars álmi,
„þó hetju-æfin yrði ekki löng —

„þó dæi hann, þá frægð og frelsi lifir,
„unz fimbulvetur hauginn dregur yfir."

„Sá jeg þig, fold! er frelsis-sólar ljómi
„fáði með geislum háan jökultind! —
„nú ertu beygð af hörðum dísar dómi,
„dýrðlega' og aldna frelsissælu mynd!
„slitin er brynja, brotin rönd og skjómi,
„brátt mun jeg tárast við þíns leiðis grind!
„máttleysið aumt, sem máttinn úr þjer laug,
„meinar þjer og að eignast fornan haug!"

## Nýjárskveðja,

til

Frú Th. Stephensen á Ytra Hólmi.

(1853).

Stjarnan á himni heiðum
hlæjandi vekur ljós —
glóir á geisla leiðum
glitrandi himinrós.

Kalt er, og fönn á foldu,
fjötruð af ísum lá;
falið er fræ í moldu,
flugan því blundar hjá.

Máninn um loga leiðir
líður í svölum blæ,
fölvann hann bjarma breiðir
blikandi fram um sæ.

Blómanna litir ljósir
ljóma ei fönnum á —
drifhvítar demantsrósir
dreifast um svellin blá.

Óríons beltið breiða
blikar við Esju tind —
bylgjandi blæjur leiða
bálið á himinlind.

Einn vakir öllum yfir
alvaldur ljósa her —
eilífðar aflið lifir,
allt þó að breyti sjer.

Blíð þó að blómin deyji,
bráðni þó svell og fönn,
stormur þó sterkur beygi
stráin og laufin grönn.

Og þó að allt í heimi
eilífðar fari um hríng —
allt þó að guðs í geimi
geymist af umbreyting:

Ætíð er samt hinn eini
alvaldur, drottinn hár;
dýrðlegt á dvalar steini
deyr ekki himintár.

Viljugur mun hann veita
vegsemd og gæfu þjer,
meðan að björtum breyta
boganum jörðin fer.

Allt sem að grundin geymir:
grösin og fögur blóm,
straumurinn hver, sem streymir
stilltum með bylgju hljóm:

Veiti þjer værð og yndi,
vegsemd og fagra tíð;
leiki þjer æ í lyndi
lukkan og gæfan blíð.

## Jólavísur.

Nálgast jól,
náðar sól
himna brá
hýrir þá!
Friðarins konungur, fagur og hár,
fæddist, og þerraði mannanna tár,
huggaði þjakaða þjóð.

Himnum á
hefur söng
engla fjöld
fríð í kvöld!
Elskunnar faðir því alheimi gaf
einn þann, er lækkaði vonzkunnar haf,
gæddan með gæzkunnar vald.

Foldu á
fjöldinn nú
minnist þín,
þengill mær!

Lýsi oss dæmið, er ljeðir oss þú!
ljómi það ætíð um mannanna bú —
kenni þeim kærleik og frið!

Gengur þá
gumna fjöld
kirkju í,
Krist að sjá?
Ef þú í hjartanu ekki hann sjerð,
ekkert þig stoðar þín guðræknisferð;
ástin er andanum í.

Gleymir þú,
gumna fjöld!
syni guðs,
gengin heim? —
Byrjar þú aptur hið eilífa stríð? —
Ekkert þá stoðar þig náðin sú blíð,
guð sem að gaf þjer um jól.

Til

## Friðriks konungs hins sjöunda,

sungið í veizlu þjóðfundarmanna, 12. Ágúst 1851.

---

Mörg mun alda
á mari rísa,
og vegu bláa
víða kanna;
mörg munu ský
af skörum bjarga
svífa, og segja
sögur af himni.

Hlæja mun hugur
í horskum brjóstum,
er bláalda
að björgum líður,
sögu segjandi
siklingi frægum,
kvæði kveðandi
fyrir konungi.

Og varir bærast
að brosi ljósu,
er svífur ský
af skörum bjarga,
þar felst að baki
frelsis röðull,
himin gyllandi
geisla-stöfum.

Kveðjum vjer þig,
konungur vor!
þó lángt vjer búum
í legi norður;
opt hefir hugur
að þjer snúið,
yfir hið dimma
drafnar hvel.

Enginn skal segja,
að ekki hafi
eptir þjer munað
Íslands niðjar;
enginn skal segja,
að ekki vjer

lofum þig,
nema ljúgi hann.

En enginn segi,
að ýtar nefni
gylfa, og gleymi
Garðarshólma;
það mun bezt
í brjóstum vorum,
meðan sól lítur
á Snælands tind.



Sapientia prima
Stultitià caruisse.

## I.

Allar þjóðir hafa frá alda öðli leitazt við að stæla eptir, eða hafa upp fyrir sjer þær myndir og þá viðburði, er bárust að skilningarvitunum, annaðhvort úr náttúrunni, eða mannlífinu. Gjörist þetta á þann hátt, að það sje með ágæti andans sett í viss hlutföll, sem svo sem bæði hækki hlutina, og gjöri þá enn meiri og fegri en þeir finnast í raun og veru, þá heitir það list; sú grein andans, sem framkvæmir listasmíðið, heitir fegurðartilfinning. Það listasmíði, sem þannig er hreinsað og fegrað af fegurðartilfinningunni, er skáldskapur [1].

## II.

Það eru þrjár stefnur, sem andi mannsins tekur, þegar fegurðartilfinningin leiðist til að fullnægja sjálfri sjer; hún framsetur þá hugsjónir andans með þrennu móti: 1. í myndum, 2. í hljóðum, 3. í orðum. Augað er skoðunarmusteri myndanna, eyrað hljóðanna, en andinn orðanna. — Ekki mega menn samt skilja þetta svo, sem augað skoði og eyrað

heyri án andans. Andinn hlýtur að vera í öllu, og með í öllu; en því sagði jeg, að andinn væri skoðunarmusteri orðanna, að afl orðanna liggur eigi eingöngu í hljóði, heldur sjer í lagi í hinu innra djúpi, sem líkaminn og skilningarvitin ekki ná til; þetta djúp er hin óskynjanlega sál mannsins. Þessar hinar þrjár stefnur eru allar saman bundnar við andann að því leyti, sem hann tekur þátt í öllu áliti voru og dómum um allt það, er vjer sjáum og heyrum, og liggur til grundvallar fyrir allri tilveru vorri. Vjer getum með öllum rjetti sagt, að öll þau listaverk, sem vjer sjáum eða heyrum, þau skynjum vjer ekki fremur með hinum líkamlegu skilningarvitum, en vjer sjáum þau og finnum til þeirra fyrir krapt anda vors. Hver sá, sem les kvæði, hlýtur að kannast við, að hann finnur til einhvers meira og dýpra, en orðanna eintómra.

## III.

Hin fyrsta stefna andans eru myndirnar, þegar hugsununum er þannig komið fyrir, að augað má skynja þær. Menn verða vel að athuga, hvað **mynd** þýðir á þessum stað; það eru ekki aðrar eins myndir, og þær, sem náttúran leiðir fram, gæddar með lífi,

og leiddar af lögum almættisins um hinn hverfula, en undir eins stöðuga veg breytinganna. Það eru hugsjónir mannlegs anda — skuggar og ímyndir; tign þeirra og ágæti er ekki fólgið í innra lífi, heldur einungis og öldungis í þeirri mynd, sem þær hafa, svo að það má vel segja, að myndin (þ. e. hin listalega mynd) hafi ekki annað eðli, en hún sje myndarinnar mynd. Þessi stefna greinist í tvo flokka: 1. í stefnu myndasmíðisins, og 2. í stefnu málverksins.

## IV.

Myndasmiðurinn sýnir oss hlutina, eins og þeir bera fyrir augað í raun og veru, þ. e. áþreifanlega, og optast nær þannig, að það má sjá þá frá öllum hliðum. Það liggur í eðli þess konar mynda, að ljós og skuggi hljóta að falla á þær af sjálfu sjer, því að þær eru (ógagnsæir) líkamir. Þess vegna þarf hann ekki liti; og enda þó tíðkað væri á summum tímum, að lita þess konar myndir, þá gjörðu Forngrikkir það þó aldrei, og ekki seinustu aldar meistarar[2]. Þegar myndirnar eru þannig, að þær ekki mega skoðast nema frá einni hlið (framan að),

þá er þeim eins og hleypt upp, og heita það lágmyndir (*Basrelief*) [3].

## V.

Þar sem myndasmiðurinn sýnir oss hlutina í fastri og líkamlegri mynd, þá sýnir málarinn oss sína hugsan í hálf-líkamlegri mynd. Ef jeg mætti svo að orði kveða, þá er list hans í því fólgin, að s v í k j a a u g a ð sem kænlegast. Mynd málarans sjest á alsljettum fleti; hann þarf þess vegna að miða niður skugga og ljósi, svo að myndirnar sýnist hafa bungu (*Relief*), eða vera líkamlegar; það gjörir hann með dökkvum og ljósum litum. Málarinn getur sýnt myndirnar annaðhvort þannig, að þær hafa þá liti, sem þeim eru eðlilegir, eða hann lætur þær einungis vera dökkvar og ljósar; þá líkjast þær fremur myndasmíðum (marmara myndum) [4].

## VI.

Jeg hef getið um tvennt, sem að er undirstaða þessara tveggja lista sem um er talað, og sem greinir þær að, þ. e. hið fasta (þjetta) líkamsefni, sem er í myndum myndasmiðsins, og hið hálf-líkamlega efni (litina), sem er í myndum málarans, —

það er hið fyrra, en hið seinna er afleiðing þess, og er skuggi og ljós (eða birta). Enn er eitt, sem greinir þessar listir, en það er það, að málarinn þarf ætíð að hafa sjer hugfasta fjarlægð hlutanna, og laga stærð og ljós-setningu myndanna eptir því, þannig, að það, sem nærri á að sýnast, sje málað stærra og skýrara en hitt, sem menn hugsa fjær sjer, sem á að vera minna og daufara; og munu allir vita það, að svo er eptir eðli allra hluta. En þessi kunnátta, um fjarlægð, er mjög vönd og flókin, en þó háð föstum og vissum lögum, er menn þekkja, en þótt oflangt yrði, að segja frá þeim hjer [5].

## VII.

Myndir myndasmiðsins og málarans ákvarðast af þeim línum, sem eru takmörk líkamsstærðar þeirra. þessar línur standa í föstum hlutföllum sín á milli, og þessi hlutföll eru grundvöllur allrar listalegrar fegurðar. þetta er auðskilið; því mannsmynd, til að mynda, yrði ljót, ef allir hennar einstöku partar ekki samsvara hver öðrum — þessi samsvaran partanna hvers til annars er það, sem vjer köllum hlutfall. Vjer vitum, til dæmis, að menn ná með höndunum hjer um bil ofan á mitt læri; að lærið

er tvær spannir, að andlitið er hjer um bil spönn, o. s. frv. — Optast nær mun ófríðleiki manna koma af því, að hinir einstöku partar ekki standa í rjettu hlutfalli sín á milli [6]. Þeir, sem hafa sjeð myndir postulanna eptir Thorvaldsen, munu sjá, hve fast þeir standa og rólega; það kemur ekki til af því, að marmarasteinninn sje svo þungur; heldur af því, að hinn ágæti meistari ljet öll hlutföll hinna einstöku parta líkamans hnitmiðast niður svo rjett og náttúrlega, að hin fasta og tignarlega hvíld og kyrrð tekur sig út í stöðu þeirra [7].

## VIII.

Rjett er það, að skipta öllum myndaverkum, bæði höggnum og máluðum, í þrjá flokka: 1. í mannamyndir, 2. í dýra (og jurta) myndir, 3. í landslagsmyndir. Manna-myndir og dýra- gjörir myndasmiðurinn, sjaldnar jurtamyndir (þó er t. a. m. blómsveigur í kring um skálina á skírnarfonti Thorvaldsens, meistaralegt smíði), og aldrei landslagsmyndir. Þar á móti getur málarinn sýnt allar þessar myndir, því að svið hans er miklu víðara og öðru vísi. Eins og sjerhver mynd hefur hin vissu hlutföll sinna einstöku parta innbyrðis, eins er hún

líka háð öðrum lögum, sem ýmist koma frá hlutnum sjálfum, innan að, eða þá utan að, annarstaðar frá. Við mannamyndir og dýra eru það allar þær geðshræringar og hugsanir, sem ákvarða útlit þeirra og stöðu; þar á líkaminn að vera sem skærastur spegill andans; enn fremur er það tíminn, sem myndirnar hugsast að vera í, svo sem æska, elli, kraptur, neyð, löngun, sorg o.s.frv.; stundir dags eða nætur, (ljóskast, rökkur, dimma); árstíðirnar; veðurfarið. Sama er að segja um jurtir, blóm og landslag, að útlit þeirra er komið undir árstíðum og veðurátt, missiradeilingu og þeim stað, er þau eiga sjer á hnettinum[8], og er það auðvitað, að menn eiga að draga frá þeim alla þá eiginlegleika, sem eru dýrslegs eðlis eða andlegs.

## IX.

Það er auðskilið, að eptir því sem áður er sagt, þá er grundvöllur allrar fegurðar — ekki fremur myndaverka en annara listaverka andans — að ekkert óviðkomandi blandist inn í hugsjónina, og þaðan í listaverkið; því að slíkt spillir og eyðir hinni nákvæmu og háleitu samstillingu og hlutfallasetningu, sem er undirstaða og grundvöllur allrar

fegurðar; allt það, sem meistarinn prýðir og býr verk sitt með, á að eiga við, á að vera á rjettum stað. Bros táknar gleði; sorgin hefur líka sinn svip; til er líka hryggðarbros og feigðarbros; hatur, reiði, ást, gæzka, og allar tilfinningar sálarinnar eiga hjer undir, og meistarinn setur niður hlutföll líkamshlutanna og liti þeirra, eptir því, sem efni hans segir honum fyrir. Hinn ágætasti og trúasti leiðtogi allra listamanna er náttúran sjálf; en þeim er ætlað, að leggja anda í náttúruna, sem mjög sjaldan finnst í henni. Jeg er ekki að segja hjer með, að náttúran sje andalaus, eða ófögur; en fegurð hennar er með nokkuru öðru móti; hún er (helzt mannleg fegurð) nokkuð blönduð. Jeg vil til dæmis minnast á goðamyndir Forngrikkja; hversu þeir t. a. m. á Seifi sýndu mannlega mynd, sem svo var hrein af öllum ástríðum, svo róleg, kyrr og tignarleg, að hún var í sannleika guðdómleg mynd. Seinni aldar myndasmiðir fóru nær náttúrunni. — Það mundi ekki þykja fagurt, að sjá rósir, sem blómgvast á jökulbreiðu og standa upp úr snjónum, ef nokkrum dytti í hug að mála slíkt; og svo er um hvað eina, sem óeðlilegt er og náttúran er á móti; eigi nokkuð út af því að bregða, þá

verður það að gjörast með sjerlegri kunnáttu og smekk meistarans[9].

X.

Hin önnur stefna andans eru **hljóðin**, þegar eyrað er látið skynja hugsjónirnar. Eins og náttúrufræðin kennir oss, að ljós og skuggi og litardeiling myndanna, sem augað sjer, sje allt komið undir skjálfta og titringi ljósgeislanna: eins kennir hún oss, að breytingar og stillingar radda og hljóða eru byggðar á skjálfta og titringi loptsins eða hljóðbylgjanna. Þannig sjáum vjer, að þó að sá munur sje á myndum og hljóðum, að tvenns konar skilningarvit þurfa til að skynja þau, þá eru þau þó í því lík, að hvorttveggi er komið undir titringi og skjálfta[10]. Því harðari og skjótari, sem titringur loptsins er, því hærra eða mjórra verður hljóðið; því hægari sem hann er, því dimmra og dýpra verður það. Á þessari reglu byggist öll sönglist.

XI.

Fuglasöngur er enginn eiginlegur söngur, heldur einungis fyllingar og gleðiraust óræktaðrar náttúru. Rjettnefndur söngur er sú hljóðsetning, sem getur

lýst fyrir eyranu hugsjónum og tilfinningum mannlegrar sálar. Fegurð hans er undir því komin, að hljóðin standi í vissum og rjettum hlutföllum hvað við annað, fylgi rjett hvað á eptir öðru, og ef fleiri hljóð eru, að þau sjeu þá rjett stillt saman. Allar hátignarlegar tilfinningar andans mega heyrast í hljóðum; ástin og frelsið, gleðin og sorgin eru þeim innilega samtengd. Söngurinn skiptist í margar tegundir eptir eðli sínu og innihaldi, t. a. m.: sálmasöngur (kirkju s.), danssöngur, hersöngur o. s. frv.[11]

## XII.

Til þess að skoða rjett og hafa vit á fallegri mynd, og heyra og skilja rjettilega fagran söng, þarf andi mannsins að hafa sjerlegt vald og næm grip tilfinninganna, sem ekki er hægt að lýsa, og ekki hægt að veita öðrum, nema þeir sjálfir temji sjer það með menntun og meðfæddum náttúrugáfum. Sumir eru svo andlega daufir, að þeir hafa enga hugmynd um neina fegurð, hvernig sem hún kemur fram. Það, að hafa vit á fegurð, köllum vjer smekk. Það er nokkur vandi, að geta skilið lag í kirkju fyrir þann, sem óvanur er orgelsöng, og kemur það til af því, að raddirnar eru svo margvíslega

stilltar saman; það má líkja svo saman, eins og að augað á bágara með að átta sig, þar sem mikið er að sjá, eins á eyrað örðugt með að heyra grundvallarhljóðin eða ganginn í margrödduðum söng, þegar það er óvant því. — Jeg ætlast nú til, að sjerhver skynsamur maður sjái, hvað líkt sje í þessum hinum tveimur stefnum andans, sem nú hef jeg nefnt, að hann sjái það, að aðalmismunurinn á milli þeirra liggur í hinu skynjanlega eðli, sem þær koma fram í, en eru undirorpnar hinum sömu andlegu allsherjarlögum að öðru leyti. Það leiðir af því, er jeg hefi sagt í I. gr., að allir listamenn (myndasmiðir, málarar og söngmeistarar), sem framleiða sínar eigin hugsanir (*Original*) í skynjanlegri mynd, þeir eru skáld, hver á sinn hátt[12], en þótt þetta nafn einkum og sjer í lagi sje veitt þeim mönnum, sem fara eptir hinni þriðju stefnu andans.

## XIII.

Þessi stefna er það, sem vjer köllum eiginlega skáldskap. Jeg hefði strax getað byrjað rit þetta þannig, að sleppa að nefna listamennina, en jeg er nú búinn að sýna, hversu skyldir þeir sjálfir eru, og hversu óaðgreinanlega iðn þeirra er sameinuð

skáldskapnum, þar sem hún er partur hans, og því þótti mjer fara betur á, að fara nokkurum orðum um þá hluti, sem enginn má undan fella að skoða og hugleiða, sem vill vekja og leiða fegurðartilfinningu sína. Þegar jeg nú fer að tala um hina þriðju stefnu, eða eiginlegan skáldskap, þá hlýt jeg að geta margra hluta, sem jeg hefði getað drepið á áður, ef jeg hefði viljað; því að það hljóta menn allt af að hafa hugfast, þegar menn íhuga hið dýrðlega ríki fegurðarinnar, nefnilega þetta: fegurðin er margvísleg, en lög hennar eru lík, og hið sama kemur fram í margvíslegu eðli. Til að mynda: eitthvert merkilegt efni — það má mála það; það má gjöra út af því söng (án orða)[13], og það má yrkja um það kvæði; efnið er hið sama, en hið skynjanlega eðli, sem það kemur þannig fram í á þrennan hátt, er ólíkt.

## XIV.

Það er auðskilið, að vjer leiðumst í þessu efni til þeirrar spurningar: hvað er fagurt? Eins auðskilið er það, að engum muni detta í hug, að spyrja: hvaða hlutir sjeu fagrir, því slíku verður ekki svarað, nema þannig, að það sjeu óteljandi margir hlutir.

Hið fagra fellur saman við hið góða. Vjer getum skipt öllum hlutum í tvo aðalflokka, nefnil. 1. í rjetta og góða, og 2. í ranga og illa[14]. Hvorttveggja þekkist af þeim áhrifum, sem það hefur á óspillta sál mannsins. Það, sem er rjett og gott, það vekur ánægju og elsku; hið ranga og illa vekur hræðslu og viðbjóð. En það er nú líka til önnur skáldleg fegurð, það er hin óttalega, skelfilega fegurð. Hversu á að koma þessu fyrir?

Það leiðir af sjálfu sjer, að allt það, sem er um leið tignarlegt, rjett og gott, það er fagurt, og þess vegna skáldlegt; en þar af leiðir öldungis ekki, að allt það, er oss finnst að sje rangt og illt, sje ófagurt. Vjer megum ekki ganga inn í musteri Apollóns í daglegum hugsunum. Þar er ekki talað um órjettvísi, eða grimmd, eða neyð eða kvalir; allt þetta er þar jafn velkomið og rjettvísi, gæzka, sæla og nautn; en allt sem ljótt er og ófagurt, er þaðan útskúfað.

## XV.

Fegurðin er þá það, að hlutirnir gjöra hin rjettu skáldlegu áhrif á anda mannsins. Þetta er nú hin víðasta merking orðsins; því að þá skoðast það frá

almennu sjónarmiði. (Öðru máli er að gegna um sjerstaklega fegurð, þar sem smekkur hvers einstaks manns dæmir, og einum þykir það fagurt, sem öðrum þykir ekki til koma). Allt það sem fagurt er, það á sjer því rót í því, sem er gott (menn mega ekki blanda saman siðferðislega góðu við þessa merkingu).

Jeg vil skýra nokkuð betur orð mín.

Það sem drottinn gjörði, er gott og rjett, og fagurt; guð hefur skapað heiminn eður náttúruna; þess vegna er hún fögur, því að grundvöllur hennar er hið rjetta og góða. Sama er að segja um manninn (eins og hann er óspilltur), guð gjörði hann eptir sinni mynd, og andi hans er fagur, og öll bygging hans. Það er þá sjálfsagt, að náttúran, sem er orð drottins, er skáldleg; en er þá allt skáldskapur, sem sagt er og ritað um náttúruna? Fáum mun detta í hug, að segja, að reikningar stjörnufræðinganna sjeu skáldskapur, eða rannsóknir jurtafræðinganna; en engu að síður sýna þessir menn allt af nýjar og nýjar sannanir upp á drottins óumræðilegu dýrð. Við nákvæmari hugsun sjáum vjer, að „form" þessara rannsókna er ekki skáldlegt, heldur efni þeirra, því skáldskapurinn þolir ekki

sundurliðun hins vísindalega í þess einstöku parta[15], heldur á hann að sýna oss það í gegnum hálfgagnsæja blæju, svo að vjer finnum til þess eða skynjum það undir niðri.

## XVI.

Jeg vil og fara fáeinum orðum um hina óttalegu fegurð skáldskaparins. Hún er grundvölluð á eyðileggingu og dauða, og það má skipta henni í tvo flokka: 1. þar sem öfl náttúrunnar eru ráðandi; 2. þar sem forlögin grípa inn í mannlífið með deyðanda veldi. Áhrærandi öfl náttúrunnar, þá vil jeg taka til dæmis skrugguveður; af hverju óttumst vjer það? af því vel getur skeð, að eldingin verði oss að tjóni, og allt þetta hið ógurlega sjónarspil náttúrunnar eins og ofbýður anda vorum. Fegurð ljónsins, er hún ekki byggð á grimmd þess? Og óttalegur sjávargangur, á hann sjer aðra rót fegurðar sinnar, en eyðilegginguna? — Líkt er að segja um vald forlaganna: þau bæði gjöra mennina að ólmum villudýrum, og kúga þá undir kvalræði og eymdir. Oss þykir skemmtilegt að lesa hersögur — en eiga þær sjer aðra rót, en hinn óskiljanlega krókstig mannkynsins gegnum eyðileggingu og dauða?

það er hinn skáldlegi fegurðarstaður í mörgum af sögum vorum. Saga Gísla Súrssonar er ekki fögur fyrir annað, en það, að sjá ágætasta atgjörvismann berjast við harðúðg og grimm forlög; sama er að segja um Grettir, Hörð, Kjartan. þetta er sjónarmiðið í sorgarleikum hinna ágætustu skálda á gullöld Forngrikkja[16], og á seinni öldum.

## XVII.

Jeg hefi nú þegar nefnt tvo hluti, sem eru efnisgrundvöllur skáldskaparins, en þeir eru náttúran, og andi mannsins. En það gildir ekki einu, hvernig farið er með þetta í skáldskapnum. Eins og djúpur brunnur með tæru vatni í er umgirtur af blómvaxinni grund: eins er öll náttúran með dásemdum sínum stór umgjörð mannlegrar sálar[17]. Aldrei kemur lýsing á náttúrunni fyrir í öðru hlutfalli hjá hinum beztu fornskáldum. það kemur til af þessu, sem á eptir kemur. Er ekki jörðin skeiðvöllur mannkynsins? og hvelfist ekki himininn með sínum ótölulega hnattaher uppi yfir sofandi þjóðum? — Eins og myndir og hljóð náttúrunnar eru óteljandi, eins eru líka hugsanir og tilbreytingar mannlegs anda óumræðilega marghátt-

aðar. Hvað er saga mannkynsins? hún er ekki annað, en saga um þau verk sem mennirnir hafa gjört, og sem eiga sjer rætur í hugsun anda þeirra. Stjórnarbyltingarnar — eru þær annað, en umbrot andans, þegar hann er orðinn kúgaður og þjáður af oki og neyð? það er eins og þrumuveður, eða stormur, þegar loptið er að leitast við að komast aptur í jafnvægi.

## XVIII.

Mannlífið stendur í óaðgreinanlegu sambandi við náttúruna, sem von er, þar sem hún er grundvöllur og stoð allrar líkamlegrar tilveru. Mönnunum er eins varið, eins og dýrunum og jurtunum: eðli þeirra fer eptir því, hvar þeir eru á hnettinum. það yrði nú oflangt hjer, að fara út í þjóðafræði; en það vita allir, að allt líf manna fer eptir því hvar þeir búa; sumir lifa á sjávarafla, sumir á kvikfjenaði; og þaðan eru komnar — langt að eða skammt — allar hugsanir manna, sem eru undirrót mannkynssögunnar, og allir viðburðir, sem grípa inn í hið almenna fjelagslíf manna. Eins og náttúrufræðingurinn þarf að gæta að, hvar sjer hvað eigi heima í ríki náttúrunnar, og hversu á því

standi; eins þarf líka skáldið að hafa sig allan við, að sjá, hverjar sjeu orsakir til verka mannsins, því að þau eru grundvölluð á hugsun andans. Þess vegna þarf hann bæði að þekkja mannlega sál, og umgjörð hennar, sem er náttúran; og því verður skáldskapur í víðasta skilningi sama sem heimspeki[18], því að allir hlutir eru í sambandi hvor við annan, en þótt vjer sjáum minnst af því. Hjer er samt ekki meint það, að skáldið þurfi eða eigi að fara inn að innsta djúpi orsakanna; heldur á lýsing hans að vera þannig, að orsakirnar taki sig út í þeim, eins og í gegnum hálfgagnsæja blæju (sb. endir XV. greinar).

## XIX.

Eins og náttúran og andinn er efnisgrundvöllur skáldskaparins, eins er hún og hann líka það tvenns konar eðli, sem allt hið veranda kemur fram í á tvennan hátt: líkamlegan og andlegan (ólíkamlegan). Jeg hefi sagt, að andinn gæti ekki verið án náttúrunnar, með því hún er umgjörð hans; og víst er um það, að svo er í þessum heimi. En náttúran getur ekki verið án andans heldur. Vjer eigum að hugsa um hlutina eins og þeir eru í sinni

ágætustu mynd. þetta lýtur að hinu eptirkomanda. Guðs andi leið yfir vötnin, og gæddi margar veru lífi; en ekki komst náttúran á sitt æðsta stig fyrr, en maðurinn kom fram. Átta langar, ómælanlega langar aldir komu yfir jörðuna, og allan þann tíma var eingin vera til á hnettinum, sem gæti vegsamað skapara sinn vísvitandi [19]. þá bljes guð anda í mannsins nasir — hann bljes sínum anda í þá veru, sem hann hafði gjört eptir sinni eigin mynd; hann gaf mönnunum nokkuð af sjálfs sín tilveru, með því að veita þeim sjálfsskoðun og hugsunarafl sálarinnar; og slíkt ágæti hlotnaðist engri annari veru á jörðunni. Maðurinn er ímynd guðs, því guð vildi, að hann yrði sýnilegur á jörðunni og að dýrð sín sæist og vegsamaðist. Maðurinn einn vegsamar guð vísvitandi og veit af honum — þegar hann var kominn fram, þá var komið það stig, sem vantaði til þess, að hlutirnir væru komnir í sína ágætustu mynd; þannig sagði jeg, að vjer ættum að hugsa um hlutina. Jeg get skýrt þetta nokkuð betur.

## XX.

það hljóta allir að skilja, að enginn hlutur

verður skoðaður, nema einhver sje til, sem skoði hann; og ekki skilinn, nema einhver sje, sem skilji hann, og ekki verður honum hrósað, nema einhver sje, sem hrósi honum, og ekki verður hann notaður, nema einhver sje, sem noti hann. Óbyggður staður, sem verið er að lýsa, og sagt er að enginn hafi sjeð, eða enginn þekkt: hann hefur enga þýðingu, fyrr en einhver sjer hann — þegar skáldið er að lýsa slíkum stað, þá er eins og vjer (lesendurnir) stöndum í skugga, og horfum leynilega á það, sem sagt er frá[20]. Allir vita, hversu fagurt það er, að sjá bæ, er stendur hjá fossi í grösugri fjallshlíð, og hversu mikil fegurð kemur þannig fram af þeirri mótsetningu, sem er á milli andans og náttúrunnar. Þannig hef jeg sýnt að náttúran getur ekki verið án andans.

## XXI.

En þetta er ekki hið einasta samband, sem náttúran og andinn eru í hvort við annað. Það eru margar líkingar og mörg hlutföll hin sömu í báðum þessum tegundum aleðlisins. Þau spegla sig hvort í öðru, það er: tilveran speglar sig í sjálfri sjer. Vjer getum engan hlut sjeð, og engan hlut

þekkt, nema með því, að líkja honum við annan hlut. „Vjer tökum öll dæmi og allar líkingar úr ríki tilverunnar”, hef eg sagt á öðrum stað; því að því er að tjalda, sem til er; enginn getur talað um það, sem hann alls ekki veit af, eða ekki getur hugsað sjer. Vjer líkjum fjöri andans við eld; ástinni við yl og varma; æskunni við vor; og ellinni við vetur; eilífðinni við hring; vorinu við æsku, allt á víxl, eptir því sem við þykir eiga[21]; því að oss finnast hlutföll beggja ríkjanna lík, og einungis mismunandi að forminu til.

## XXII.

Það má ráða af XII. og XIII. grein, að skáldskapurinn innibindur í sjer allar stefnur fegurðartilfinningarinnar. Skáldið hlýtur að hafa opin eyru og augu fyrir þeim myndum og hljóðum, sem fyrir hann bera í lífinu. Hann lýsir með orðum því, er gjörir áhrif á fegurðartilfinningu hans; en þessi orð eiga að vera myndir og hljóð, því að myndir og hljóð andans eiga að taka sig út í skáldskapnum — eða með öðrum orðum: skáldskapurinn á að geta lýst öllum tilfinningum andans og höfuðeðli náttúrunnar, í hvaða formi sem það kemur fram; því að

hann er spegill alls þess, er birtist anda mannsins; en menn hljóta að varast, að setja móðu á þenna spegil, því að myndir hans eiga að vera hreinar og sannar. Enginn sá getur verið skáld, sem vantar menntun og reynslu; menntunarleysi fylgir smekkleysi, og reynsluleysi fylgir þekkingarleysi[22].

## XXIII.

Á vorum dögum er skáldanafnið haft um sjerhvern þann, er getur gjört vísu í hendingum, og skáldum er hugsunarlaust slengt saman við hina svonefndu rímara. Það er hægt að sjá af öllu hinu undangengna, og einkum af orðum mínum í XVIII. grein, hvað jeg vil heimta af rjettnefndu skáldi; þau voru þessi: hann þarf bæði að þekkja mannlega sál og umgjörð hennar, sem er náttúran — það er að skilja: að hann sje kunnugur öllum þeim greinum mannlegrar þekkingar, er taka inn í lífið og verkahring andans; að hann hafi þá gáfu, að sjá eður geta sjer til þess sambands, er hlutirnir og viðburðirnir standa í hver við annann; og að hann geti lýst öllu því, er hann velur sjer til yrkisefnis, í fagurri mynd og með rjettu orðavali. Í þessum þremur kröfum er fólgin öll sú menntun, þekking,

lærdómur, smekkur og meðfædd gáfa, sem útheimtist til þess að vera skáld.

## XXIV.

Jeg get þess vegna ekki álitið skáldin annað, en þá menn, sem hafa margbreyttar gáfur — sjer í lagi sameiningar- (*combinations*) gáfu — og margvíslega þekkingu til samans. Því jafnari og samstilltari sem smekkur og lærdómur mannsins eru við gáfur hans (það er: hinn upprunalega andlega fullkomlegleika hans, eins og hann er í sjálfu sjer), því ágætara skáld er hann, einmitt af þessari orsök, að skáld er, eptir mínum skilningi, ekki annað, en ágætur gáfumaður, sem sameinar í anda sínum hinar fjölbreyttustu stefnur (andans og) þekkingarinnar, og þar af leiðandi rjetta og háleita skoðun á lífi mannanna og náttúrunnar, og sjerlega gáfu til þess, að gjöra öðrum skoðanir og hugsanir sínar ljósar í fagurlegum búningi[25]. Vjer vitum af mörgum mönnum, sem vjer köllum gáfumenn, en sem þó annaðhvort alls ekki eru skáld; eða, ef þeir eru skáld, þá geta þeir ekki sýnt hugsanir sínar nema í vissri mynd[26]. Þetta kemur til af því, að hinar margbreyttu stefnur gáfnanna eru ekki jafnar, og

ein er annari ríkari; vera má og, að þeir hafi meiri þekkingu á einum hlut, en öðrum; og er svo um þetta hvorttveggja hjá allflestum mönnum.

## XXV.

Ekki verður því neitað, að það eðli andans, að geta leitt í ljós hugsanir sínar í hendingum eða rími (svo nefndum bundnum stíl), er sjerstök gáfa, sem helzt mun vera í því fólgin, að andinn hneigist að tign og fegurð sönglistarinnar. Það er sjerlegur eiginlegleiki sálarinnar, og er ekki gott að gjöra grein fyrir honum. Það sýnist svo í fyrstu, sem þessi gáfa sje byggð á góðu eyra, sem menn kalla, eður því, að heyra rjett, og hafa tilfinningu um rjetta og ranga tóna; en það virðist samt svo af reynslunni, að hægt sje, að hugsa sjer lagið; jeg vil einungis minna menn á hinn fræga Beethoven, sem bjó til öll sín fegurstu lög, er allur þorri menntaðra manna undrast enn, eptir að hann var með öllu heyrnarlaus orðinn. En þó hljóta menn að gæta þess, að hann hafði heyrt áður; það er jafn ótrúlegt, að sá, er aldrei hefur heyrt, geti búið til lag, því hann hefur eigi hugmynd um neinn hljóm, og að sá, sem aldrei hefur sjeð, geti lýst nokkrum

sjáanlegum hlut, því hann hefur eigi hugmynd um neitt ljós.

## XXVI.

Auðvitað er samt, að sje sönggáfa sameinuð hinum öðrum eiginlegleikum, er mynda skáldskapargáfuna, þá hlýtur líka sú mynd, er skáldið framsetur hugsanir sínar í, að verða því fegurri og rjettari, sem sönggáfa hans er meiri; því að þá sameinar hann á fullkominn hátt tvær stefnur fegurðartilfinningarinnar (sönglist og eiginlegan skáldskap), er í rauninni eru óaðgreinanlegar; og hvað eina fellur saman við hitt annað[27]. Þetta er nú hið æðsta stig, þegar skáldið er söngmeistari um leið. En það er harla sjaldgæft; enda er eigi alllítið varið í það, þó minna sje, að skáldið geti valið þau lög, sem við eiga, og eru þess mörg dæmi, að þegar svo er ekki, þá spillist fegurð skáldskaparins.

## XXVII.

Það eru sumir menn, sem geta rímað orðin á ótrúlegan hátt, og sumir undarlega fljótt, jafn vel jafn hratt og þeir tala. Þetta er nú byggt á því, að ein stefna eður gáfa andans er hinum ríkari —

hjá flestum slíkum rímurum; og fer fjarri því, að hún sje skáldskapargáfa, þegar hitt vantar. Fyrir þessum talandi skáldum vakir einhver óljós hugmynd eða grunur um söng. Hversu margar vísur heyrum vjer ekki — lausavísur, sem kastað hefur verið af munni fram, og sem mörgum þykir góður skáldskapur; en sjaldan er í þeim nokkur skáldleg hugsun. Ekki mega menn samt misskilja orð mín svo, sem jeg sje að lasta gáfu þessara manna; miklu fremur lofa eg hana; því þeir eiga það, sem örðugast er að ná, en það er lipurleikinn til ríms og hendinga; skeytingarleysi hindrar þá opt frá því að verða skáld; því að þeir hirða eigi um að menntast og laga smekk sinn, svo að það er mjög sjáldgæft, að gagn eða varanleg skemmtun sje að þeim. Ekki mega menn samt álíta þetta fyrir óbrigðula reglu, því engin regla er undantekningarlaus. Hinir svo kölluðu „*improvisatori*" á Vallandi, sem víðfrægir eru um heim, fyrir þá sök, að þeir geta mælt hendingar og ljóðmæli af munni fram, eru, með tilliti til smekks og menntunar, harla ólíkir rímurum vorum, þó þeir sjeu líka talandi skáld. Hjá improvisatorunum falla lögin, orðavalið, framburður,

áherzla og líkamsburður svo fagurlega saman, að allt þetta myndar eitt listilegt skáldkaparsmíði[28].

## XXVIII.

Það hlýtur að liggja í augum uppi, að ómögulegt muni vera, að gefa vissar reglur fyrir því, hversu yrkja skuli, eða kenna mönnum að verða skáld. Sje sú tilfinning þeim ekki meðfædd, þá hjálpar ekki að reyna það; og ef að tilfinningin ekki hreinsast og fágast af skoðun, hugsun og námi, til þess að viðburðir og myndir andans og náttúrunnar megi speglast í sálunni, og endurskína í rjettri og fagurri mynd: þá mun tilraunin ekki duga mikið. Það er til einkis fyrir þann, sem alls ekki hefur skáldskapargáfu, að lesa rit Hóratsíusar og Aristótelesar, er þeir hafa samið um skáldskap: hann mun ekki verða skáld að heldur. Sumir misskilja líka sjálfa sig, og ímynda sjer, að þeir sjeu skáld, og eru að yrkja í gríð; sumir hafa máske vel vit á skáldskap, og eru þó ekki sjálfir skáld. Reglurnar eða það, sem athugandi er í skáldskapnum, eru byggðar á hinu sama, sem í hinum öðrum listum. Að hafa ekki of mikinn íburð og orðaglamur; að vera ekki aptur of orðfár og þurr, að vera mátu-

lega langorður eða stuttorður; að taka rjettar samlíkingar og orð og einkunnaorð; að setja hvað á sinn stað og tíma; að vanda málið og rímið, og svo framvegis; þetta er, eins og allir vita, það, sem skáldið á að gæta, og innifelst þar í allt sjerstaklegt og smávegis, sem of langt yrði hjer upp ad telja, og óþarfi að nefna.

## XXIX.

Jeg vildi fara hjer fáeinum orðum um þá, er gjöra sjálfa sig að dómurum skáldskaparins. þegar Virgilíus var að yrkja Eneasar drápu, þá las hann Ennius, sem er einn af eldri skáldum Rómverja; var Virgilíus þá einhverju sinni að spurður, hvað hann væri að lesa; en hann svaraði: aurum se colligere ex stercore Ennii, það er: að hann væri að safna gulli úr taði Enníusar (þ. e. að nota sjer það, sem gott væri í honum). það mætti segja hjer um bil hið gagstæða um ritdómendur vorrar aldar, nefnilega eos colligere stercus ex auro autorum, því að þeir lesa skáldskaparrit (og flest önnur rit líka) til þess, að tína úr þeim hið versta; en sú mykja er ekki góð til áburðar, því af henni sprettur illgresi eitt. Enginn rjettsýnn gáfumaður setur

sig út til að rífa niður og spilla fyrir öðrum, og gjörir það aldrei, nema þegar brýn nauðsyn er til; þessa þurfa heldur ekki nema andlegir aumingjar, sem vegna þess, að þeir eigi eru færir um að gjöra neitt sjálfir, leggjast á aðra til þess að geta komið fram opinberlega líka. “Vjer eplin með, sögðu hrossataðskögglarnir”.[29]

## XXX.

Jeg vil og drepa á tvo hluti enn; en það er málið, og það sjónarmið, sem skáldið er á. Fegurst er að yrkja á móðurmáli sínu, því raddir þess snerta hjartað, og minna oss á æskuna, meðan vjer vorum saklaus börn. Í sjerhverju máli liggur hulinn kraptur, sem ómögulegt er að lýsa, og ómögulegt er að finna til fulls og alls, nema í móðurmáli sínu. Þó geta menn að nokkru leyti fundið það í þeim málum, sem menn skilja vel; en þess vegna álít jeg og, að bezt sje að lesa sjerhvert rit á frummálinu, ef kostur er á; því harla sjaldgæft er það, að útleggingar nái frumsmíðinni svo, að allur andi hennar liggi þar í. Optast mun mega segja um þær, að þær sjeu eins og blóm, sem dregið er upp eptir lifandi blómi: myndin og litarprýðin sjest, en ilminn, sem

fylgir náttúrunnar smíði, og hið lifanda afl, sem er svo guðdómlegt, af því það er skorðað í framsókn tímans með fæðingu og dauða, vantar (sb. Schelley: defence of poetry); eins vantar optast nær í útleggingarnar hið lifanda, hulda afl, er frumsmíðinni fylgir; ellegar þá er annað afl sett í staðinn, sem ekki er í frumsmíðinni. Öðru máli er að gegna um það, að setja sig inn í anda annara skálda (eður þjóða)[30]. Það, sem menn kalla þjóðlegt, það á bezt við þjóðina, sem á það; það er eðlilegt. En því ríkari, sem sú tilfinning er hjá manni, að hann (einstaklingurinn) standi í sambandi við allan heiminn — og þetta samband er vissulega til — því síður hirðir andi hans um, hverrar þjóðar hugsanir hann leiðir í ljós; einungis ef mynd þeirra er efninu samboðin. Skáldskapurinn á ekkert föðurland, nema ríki andans, og lög hans eru eilíft frelsi. Efnið þarf þess vegna alls ekki að vera þjóðlegt, heldur skáldlegt. Vjer sjáum þetta og á sumum kvæðum, sem svo eru ágæt, að þau ryðja sjer allt af og alstaðar til rúms — það er ekkert spurt að, á hvaða öld þau sjeu gerð, og ekki, hverrar þjóðar þau sjeu — einmitt af því þau eru skáldleg, og eru því hafin upp yfir hin endalegu takmörk rúmsins og tímans. Þannig eru Hómers kvæði. En til

þess að komast á þetta sjónarmið, þarf mikla menntun og miklar gáfur. Menn mega ekki lasta neinn fyrir það, að hann tekur "óþjóðlegt" efni til skáldmæla sinna, því að það er rangt, og tjáir ekki að álíta sig svo afskekktan, að menn eigi að forðast aðra; á því læra menn ekkert, og standa í stað[31].

## XXXI.

Enn hlýt jeg að drepa á einn hlut, sem mikið hefur verið tíðkaður á landi voru allt til skamms tíma. Hann snertir hina liðnu öld, og núverandi tíð; það er að skilja: fornmálið og vorrar tíðar mál. Það eru sumir, sem ekki vilja yrkja á öðru máli, en fornmáli voru, og þykir ekki koma til vorrar aldar máls. Jeg neita því ekki, að fornmálið er fagurt, hljómmikið og tignarlegt; en aptur á hinn bóginn verður því ekki neitað, að vort mál er, eins og það er nú, liðugra og beygjanlegra, blíðara og þó eins hljómmikið og tignarlegt, þegar vel er með farið. Rjett segir Esaias Tegnér[32], er hann segir, að vilji menn leita að þeim skáldum, er lýsi afli og styrkleika tilfinninganna, ástríðanna og lastanna, þá líti menn aptur fyrir sig, og fornöldin muni hafa þau skáld að geyma. En vilji menn finna lýst

mannlegu hjarta, og skyggnast inn í innstu afkyma þess; vilji menn kanna leynistigu glæpanna, ástarinnar, hatursins; þá skuli menn snúa sjer til skálda vorrar aldar. Þetta þrennt: tíminn, málið, og þeir menn, sem þá eru uppi, er allt óaðgreinanlega sameinað hvað öðru. Andi tímans breytist; nýjar hugmyndir birtast; og nýjar hugmyndir þurfa nýtt mál, eða þá umbreytingu á málinu, sem þeim er hæfileg. Nú á dögum skilja og fáir fornmálið; og þar að auki er það víst, að það kemst ekki inn í þær hugmyndir, sem eru afspringur seinni alda. En það er listin, að nota sjer rjettilega fornmálið, og laga það, svo að það megi verða hæfilegur búningur hugmyndanna, með því að samlaga það rjettilega við nýja málið, og láta þannig þenna hinn ágæta og guðdómlega sjóð, er forfeður vorir hafa eptir sig látið, njóta rjettar síns.

## XXXII.

Allur skáldskapur má skiptast í tvær stefnur; hin fyrri er sú, er menn lýsa öðru eða öðrum, (*objectiv Poesi*), og setja sig fyrir utan sjálfan sig, og inn í aðra; hin síðari er sú, er menn láta sinn eigin anda koma fram, og segja sjálfs sín tilfinn-

ingar (*subjectiv Poesi*). Hin fyrri stefnan deilist eptir skáldskaparforminu í tvo flokka, nefnilega leikrit og söguljóð.

Leikritin heita "dramatiskur" skáldskapur (*Drama*, á grísku δραμα af δραω, jeg gjöri, framkvæmi) fyrir þá sök, að þau segja ekki beinlínis frá; heldur sjá menn viðburðina í þeim, eins og þeir koma fyrir sjónir manna í lífinu; og heyra ræður þeirra manna, sem þar við eru riðnir. Það form, sem þessi skáldskapartegund kemur fram í, eru viðræður (*Dialog*); en þær þurfa tvennt til stuðnings, nefnilega hæfilegan stað, og menn, er sýni mynd þeirra manna, er koma fyrir í leiknum, og segi fram þau orð, er þeir eiga að tala. Þessi hæfilegi staður er sjónarsvið eða leiksvið, (*Scena*), sem til er búið í þeim húsum, sem byggð eru til þess að sýna sjónarleikinn í (*Theater*); hann á að sýna mönnum staðinn, eins og hann á við viðburðina. Þá menn, sem leika, köllum vjer leikara (*Acteurs*), og á rödd þeirra, búningur og líkamaburður að vera samboðinn tímanum og staðnum, sem viðburðirnir fara fram á, og eðli þeirra manna, er leikritið leiðir oss fyrir sjónir, og er þetta ekki all-lítill vandi, þar sem leikarinn hlýtur að skilja skáldið til fulls og alls, og

samlaga sjálfan sig öldungis þeirri mannlegu veru, er skáldið leiðir í ljós. Ræðurnar hljóta að vera samboðnar anda og eðli mannanna, og eðli (*Karakter*) þeirra á að vera sjálfu sjer samkvæmt í allri heild leikritsins, og má ekki koma í mótsögn við sjálft sig. Leikritin skiptast eptir efninu í sorgarleiki og gleðileiki. — Sorgarleikirnir (*Tragoedie*) leiða mönnum fyrir sjónir harma og eymdir, ógæfu og sorg, og baráttu mikilla manna við forlögin; þeir enda optast með dauða. — Gleðileikirnir (*Comoedie*) sýna annaðhvort það, sem fær mönnum verulegrar gleði (svo sem *Cymbeline* eptir Shakspeare), eða það, sem er hlægilegt og háðungarlegt. — Eiginleg leikrit seinni skálda eru ætíð í fimm þáttum, sem byggðir eru á framgangi og framsókn viðburðanna[33]. En þar fyrir utan eru og margar aðrar leikritategundir, sem ekki fylgja þessari reglu. *Opera* kalla menn það leikrit, sem er í ljóðum, og gengur með söng og hljóðfæraslætti. *Ballet* heitir það leikrit, sem er án orða, en gengur með dansleik og hljóðfæraslætti; er dansinn þar aðalundirstaðan, því að í honum á allur leikurinn að taka sig út; *Pantomime* er sá leikur, sem gengur þegjandi, með bendingum og líkamahreifingum.

Söguljóðin (Epos, επος, orð, því þau segja frá öllu) aðgreinast frá leikritunum á því, að þar sem leikritin sýna mönnum hlutina í verulegri mynd, með því að menn eru látnir sjá ímynd staðarins, sem viðburðurinn fer fram á, og leikararnir sýna og segja mönnum listasmíði skáldsins: þá segir söguskáldið frá öllu þessu sjálfur; hann lýsir sjálfur stöðunum, mönnunum og viðburðunum með fullum orðum, og því má segja, að skáldskapur hans sje orð (επος), en leikritaskáldskapurinn bæði orð og verk (δραμα). Báðar þessar skáldskapartegundir eru líkar hvor annari, nema að forminu til. Menn hljóta að sýna það band, sem er á milli viðburðanna, og það afl, sem rekur viðburðina áfram, til þess að endir og lok þeirra leiðist fram um síðir. Báðar þessar skáldskapartegundir verða að hafa hinn sama skarpleika, sameiningu, hita (*Pathos*, sb. Schiller: *Ueber das Pathetische*, Bd. XI, s. 396) aðdraganda viðburðanna og hinn höggvanda sambandsþunga, sem setur líf í gang skáldskaparins (þ. e. *Intrigue*). Söguljóðin geta bæði verið sorgleg (*tragisk*) og kátleg (*comisk*) eða mitt á milli, eða þá gleðileg.

Hin seinni stefna skáldskaparins eða (*subjectiv Poesi*), sem lýsir tilfinningum skáldsins sjálfs, inni-

bindur það, er menn kalla *Lyrik* (af *λυρα*, harpa, því Forngikkir sungu á hörpu með kvæðum sínum), og er ekki gott að finna íslenzkt orð yfir þá hugmynd. Ekki er það ólíklegt, að þessi tegund sje elzt alls skáldskapar; að minnsta kosti er það víst, að hún er hin fyrsta sem fram kemur hjá öllum hagorðum mönnum[34].

Fyrir utan þessar greinir skáldskaparins, sem nú eru taldar, eru margar fleiri, sem koma fram, þegar efni og búningur sameinast til þess, að láta hverja tegundina renna í aðra. Þær eru skyldar öllum aðalgreinum þeim, sem jeg hefi nefnt, og er merking þeirra mjög óviss og óstöðug[35].

Ekki þarf allur skáldskapur að vera í ljóðum eða bundnum stíl. Leikrit eru að kalla aldrei í ljóðum; heldur eru þau annaðhvort í óbundinni ræðu, eða þá í órímuðum rímfallanda (*Rhythmus*), og þá optast undir svo kölluðum *iambis*. Söguljóð geta raunar verið í óbundnum stíl (*Epos i Prosa*), eins og í bundinni ræðu; jafnvel þó hið síðara þyki fegurra, þar sem tign og meðferð efnisins betur samlagast við og vex við hinn fallanda þunga, sem samfara er bundinni ræðu; en mikill vandi er það, að lesa rjett og finna áherzluna, og svo mikill, að

ágætiskvæði getur fundizt ljótt og leiðinlegt, þegar það er allt lesið vitlaust og með röngum eða engum fallanda; en sje það lesið rjett, þá heyrist það, eins og það er í raun og veru; allt eins og prjedikun, sem illa er borin fram, hún gerir engin áhrif, enda þó ágæt kunni að vera.

Til söguljóðanna má reikna þá stefnu skáldskaparins, sem upp er komin, í sínum eiginlega búningi, á fyrri öld, og á sjer rætur í fornum frásögum (líkum og strengleikarnir eru)[36]. Það eru hinir svo kölluðu rómanar, (*Romans*, = frásögur). En þar sem tign og skáldlegur þungi er einkenni söguljóðanna, bæði eptir innihaldinu, (enda þó það sje kátlegt) og forminu, þá geta menn ekki sagt hið sama um rómanana, því þeir eru bæði ætíð í óbundinni ræðu; og þar að auki hafa þeir svo mikið svigrúm, að eðli þeirra alls ekki verður lýst í fám orðum, þar sem þeir í einu geta hafizt upp í hið æðsta hetjulega líf, og sigið niður í óþverralega afkyma auðvirðilegs lifnaðar og eðlishátta, sem ekki koma fyrir nema á lægsta stigi mannlegrar tilveru.

# ATHUGASEMDIR.

## 1. I. gr., bls. 55.

Öll listaverk gjörum vjer eptir náttúrunni eða nokkrum hlutum í ríki tilverunnar, sbr. XXI. gr., bls. 75; en þar með, að menn "hækka" fyrirmynd sína í listaverkinu, sbr. IX. gr., bls. 62, þá fram koma þær sýnilegu fegurðarhugsjónir, sem eru fyrir ofan smekk einstakra manna (*Idealer*), sem eru fagrar í sjálfu sjer, hversu sem um er dæmt, sb. XV. gr., bls. 68. Þannig eru t. a. m. goðamyndir Forngrikkja; en að jeg minni á eitt dæmi, sem nær oss liggur, þá vildi jeg taka til dæmis kvæðið, sem Jónas Hallgrímsson hefur stælt eptir Jóni Þorlákssyni: Tinda fjalla o. s. frv., það er fegrað kvæði úr öðru (idealiseruð mynd). — Aristóteles (frá Stagira, f. 381 f.Kr., †322) segir líka í riti sínu um skáldskap (de poetica) c. I. v. 2: "Hetjukvæði, og sorgarleika-kvæði, einnig gleðileikir og Bakkusarsöngvar, og að mestu leyti pípnasöngur og strengleikalist, allar (þessar listir) eru eptirmyndir (þ. e. gerðar eptir öðrum fyrirmyndum) yfir höfuð" (*Ἐποποιΐα δὴ, καὶ ἡ τῆς τραγῳδίας ποίησις, ἔτι δὲ κωμῳδία καὶ ἡ διθυραμβοποιητικὴ, καὶ τῆς αὐλητικῆς ἡ πλείστη καὶ κιθαριστικῆς, πᾶσαι τυγχάνουσιν οὖσαι μιμήσεις τὸ σύνολον*).

2. IV. gr., bls. 57.

Líklegt er, að myndasmíðið sje ekki fundið upp af neinnri einstakri þjóð, heldur sje það upp komið snemma hjá mörgum þjóðum. Þannig eru Sphínxlíkneskin á Egiptalandi, og Memnonsstytturnar, æfargamlar myndir. Í Suðurameriku er heilt land, 12000 ferhyrndar mílur á stærð, sem er fullt af klettum með úthöggnum myndum. Ferðamaður þjóðverkur, Nikolas Hortsmann, fann þær fyrstur, 1749; síðan fann Róbert Schomburgk þær aptur (eitthvað 1835). Í þessu landi búa nú svo villtir menn, að þeir hafa enga hugmynd um nokkra menntun, og hafa myndir þessar verið höggnar út fyrir löngu, en þó á ýmsum öldum (Humboldt, Ansichten der Natur, Bd. I, p. 238—247). Þetta er fremur sagt hjer til þess að sýna, hversu þjóðirnar í sínum barnalega einfaldleik æsku sinnar (þjóðalífsins) reyna til að mynda það, sem þeim ber fyrir sjónir, og leiða fram myndir, sem geta leitt skarpvitra, athugandi menn seinni alda á þá leynistigu, sem saga mannkynsins fer um, eptir að þjóðirnar eru sjálfar burtu liðnar, án þess að láta sögur eða rit eptir sig liggja: heldur en til að nefna myndirnar í fegurðarlegu tilliti, því það má nærri geta, að þar sem menntunin ekki er á hærra stigi, þar getur ekki orðið talað um fegurð. Hin sanna fegurð mynda er upp komin á Grikklandi. Það er talað um myndir í Hómers kviðum (1000 árum f. Kr.). Seinna, 480—336 f. Kr., komst myndasmíðið á hæsta stig í Grikklandi; þá voru uppi Phidias, sem gjörði hinn ólympiska Seif eptir 528—530 vv. í I. b. Ilias, þar

sem hann benti þetis með augunum, til merkis um það, að loforð hans væri órjúfandi, en tindar Ólýmpí skulfu. Þá var uppi Praxiteles, sem bjó til mynd af Afrodite (Venusi) klæðlausri, og hafði engi vogað áður eður treyst sjer til; en myndin var svo mikið meistaraverk, að hún varð höfð í orðtaki, og menn streymdu jafnvel frá útlöndum til að sjá hana. Þá var uppi Myron, sem bjó til svo fallega kú, að seinni alda fornfræðingar (þár á meðal Goethe í Kunst und Alterthum) hafa ritað um þá mynd, og undruðust hana allir. Þá var uppi Lysippus; hann einn mátti mynda Alexander mikla, og bjó til svo fagra mynd eptir hesti, að lifandi hestar hneggjuðu að myndinni. Nokkru seinna var Skopas, sem gjörði mynd Níóbes; og Apollóníus frá Ródus, sem gjörði mynd Laócóons (Winkelmann, Geschichte der Kunst des Alterthums, I, 170; II, 347—350; Virgilius, Aeneis, II, 199—224), og eru báðar þessar myndir mjög frægar, og til enn í Rómaborg.

### 3. IV. gr. bls. 58.

Lágmyndir eru t. a. m. á skírnarfonti Thorvaldsens í Reykjavíkurkirkju; það eru og lágmyndir, sem eru á mörgum stofuofnum. Ekki eru myndir ætíð höggnar út úr steini, heldur eru þær opt steyptar úr málmi, og er það hið sama hvað myndina snertir, nema aðferðin er önnur. Mynd Seifs, er Phidias hjó til, var ekki öll úr steini, heldur úr málmum, fílsbeini, o. fl.

4. V. gr. bls. 58.

Lágmyndir eru hjer um bil á takmörkunum milli myndasmíðis og málverka. Að myndasmiðurinn ekki getur sýnt landslagsmyndir, kemur til af því, að verk hans eru holótt eða bunguð og ójöfn, og gefur að skilja, að ekki muni vera mögulegt, að láta skuggana taka sig þar eins nákvæmlega út, og gjört verður með litum á sljettum fleti.

5. VI. gr. bls. 59.

Þessa list, um fjarlægðarreglurnar, kölluðu Grikkir og Rómverjar Scenographia; Vitruvius (de architectura. Lib. I. c. 2) segir, að það sje: frontis et laterum abscedentium adumbratio (skript — adumbratio = Contour) — framhlutans og hliðanna, sem eru fjær = fjarlægjast, þ. e. eptir því sem þær eru lengra á burtu), Sá hluti þessarar listar, sem liggur til grundvallar fyrir öllu málverki, er línufjarlægðin — *Linieperspectiv*; um deilingu ljóss og dimmu er *Skyggeperspectiv* (það gjörir bunguna—Relief); um áhrif loptsins, litanna, apturkasts ljóssgeislanna eptir fjarlægðinni, o. s. frv., er *Luftperspectiv* (*Lysp Farvep.*). Fyrst máluðu menn skuggamyndir (Skiagramm, Silhouette); síðan máluðu menn með einum lit (Plin. hist. nat. L. xxxııı, c. 7, og xxxv, c. 8), sem kallað var *monochroma* (einlit málverk), eins og sjá má á kerum (*vaser*) Etrúska og Forngrikkja. Menn þekkja mörg málverk, sem eru annaðhvort einlit eða fleirlit, en skuggalaus, sem eru gömul, en svo eru allar línur vel gjörðar, að á dýramyndum Egipzkum, æfargömlum, má þekkja sjer-

hverja tegund; fleiri myndir hafa menn og þessa kyns frá fleiri þjóðum, meðan menntun þeirra var í æsku (eða þeirra sem enn eru það; sjá hjer um: Historical and Statistical Information, respecting the history, conditions and prospects of the indian tribes of the United States, by Henry Schoolcraft, Philadelphia, 1851, Part. I; Indian Pictography, s. 333—340; og þar í: Comparative views of the pictography of barbarous nations, s. 421 seqq. Á 4. öld fyrir Kr. var málaralistin í mestum blóma á Grikklandi, þá voru frægastir málarar uppi: Zeuxis, Parrhasius og Timanthes, en Apelles (356—308) var þó mestur, því hann sameinaði fegurð allra hinna í myndum sínum. Hann einn mátti mála Alexander mikla. Hor. ep. II, 239:

Edicto vetuit (þ. e. Alexander) ne quis se præter Apellem
pingeret, aut alius Lycippo duceret aera
fortis Alexandri vultum simulantia.

það er sagt, að hann hafi getað málað þrumuveður og eldingar furðulega. Hann tamdi sjer málaralistina á degi hverjum (nulla dies sine linea); hann bjó til mynd af Afrodite, en entist ekki til að ljúka við hana; þóttist engin fegra listamálverk sjeð hafa; því segir Ovidíus (de arte amandi, III, 381—382):

Si Venerem Cois nunquam pinxisset Apelles,
mersa sub aequoreis illa lateret aquis,

að það málverk var frægt um öll lönd, og enginn kom nokkurn tíma sá upp, er gæti lokið við myndina. — Parrhasius var og mjög frægur málari. M. A. Seneca segir, að

hann hafi keypt gamlan hernuminn mann, og pínt hann, og dregið upp Prometheus, sem guðirnir krossfestu á Kákasusfjalli; hafi hann myndað kvalir hans eptir píningu mannsins (að exemplar eius pinxit Promethea, Controversiarum, Lib. X, Contr. V.). — Zeuxis var samtíða Parrhasiusi, og átti í keppni við hann; Parrhasius múlaði dúk svo vel, að Zeuxis hjelt, að það væri dukur, sem hengdur væri fyrir málverkið sjálft, — þá var Zeuxis sigraður, er Parrhasius gat dregið sjálfan meistarann á tálar. Zeuxis málaði Helenu Trójudrottningu, og sendu Krótonsborgar menn honum 5 meyjar frá Ítalíu til fyrirmyndar. Hann málaði Hekúbu, móður Príamusar Trójukonungs, svo kátlega, að hann hló sig dauðan yfir myndinni. — Til eru mörg málverk fornmanna, sem grafin hafa verið úr jörðu, úr Herculanum og Pompeii (sem Vesúvíus eyðilagði 63. ept. Kr.), og eru máluð á nýtt kalk, al fresco (*Frescomaleri*); það eru hin einustu málverk, sem til eru frá fornöld; eru slík kalkmálverk ærið varanleg. Í seinni tíð eru menn aptur farnir að tíðka þessa málverkategund, og voru Rafael og Michel Angelo (Buonarotti) frægastir; hvorgi finnst getið um aðferð hinna gömlu málara í þessari list, en menn hafa samt fundið hana á rannsóknum, sem gjörðar hafa verið á fornleifunum sjálfum. Sb. Holm. *Veiledning ved Udförelsen af Frescomalerier* o. s. frv., *Kjöbenhavn* 1850, bls. 1, 2, 4—20.

6. VII. gr., 59. bls.

Forngrikkir höfðu vissar reglur fyrir æðstri fegurð (Ideali),

sem Raphael Mengs hjelt að hann hefði fundið (sjá Winckelmann, l. c. I, 176.); andlitinu er skipt í þrjá hluti jafna: einn frá hökunni og að nefinu, annar þaðan og að enninu, og þriðji frá enni og að hársrótum, svo hvort um sig er þriðjungur. Svo eru og þar að auki fleiri línur, sem ákvarða legu og stað hvers eins. Hinn frægi meistari Leonardo da Vinci á Ítalíu (1452—1519) lagði sig eptir líkskurðarfræði (*Anatomie*), og ritaði um það verk með tilliti til málaralistar, þar eð sjer hver hreifing líkamans er í óaðgreinanlegu sambandi við alla eðlisbyggingu hans. Þess vegna eru nú og allir málarar látnir læra nokkuð um byggingu mannlegs líkama.

7. VII. gr., 60. bls.

Þessar tólf myndir postulanna standa í Frúarkirkju í Kaupmannahöfn, og eru málaðar í þeirri biblíu, sem Kalckar hefur út gefið. Einn hinna fyrstu, sem með andlegu ágæti reyndi til að ná fornmönnum í myndasmíði, var Michel Angelo Buonarotti (1474—1564), honum fylgdu fleiri frægir listamenn; en Canova (1757—1822) tókst fyrstum að leggja enn meira af mannlegri fegurð í myndirnar, og losa sig frá hinni guðdómlegu tign, sem er einkennileg fyrir myndasmiði fornmanna. Frægastur myndasmiður vorra tíma var Albert Thorvaldsen (1770—1844), og þykir enginn hafa sameinað tign fornmanna við fegurð seinni tíma eins vel og hann.

8. VIII. gr., 61. bls.

Það eru tvær stefnur, sem breytingar hinnar lifandi

náttúru (jurta og dýra) fylgja á hnettinum. 1. Hin fyrri liggur lárjett (*horizontal*) eptir fleti hnattarins. Litarfegurð dýranna og gróði jurtanna er mestur nm miðbik jarðar, þar sem heitast er, og minnkar allt af, eptir því sem nær dregur heimsskautunum; breytingar þessar eru því komnar undir hita og kulda; en minna gætir þeirra í höfunum, því þar er hitalögmálið í öðrum hlutföllum en í loptinu uppi. 2. Hin önnur stefna er beint í lopt upp, þannig, að dýra- og jurtafjöldinn og stærð þeirra minnkar allt af, eptir því, sem hærra kemur upp í loptið, af því þar er kaldara, en við jörðu niðri.

9. IX. gr., 63. bls.

Þannig eru t. a. m. englamyndir o. fl. Áður en jeg lýk við málverkið, þá vildi jeg geta um málara seinni tíma nokkuð betur. Málaralistin stóð í mestum blóma á Ítalíu á 15. og 16. öld. Leonardo da Vinci (1452—1519) var ekki einungis málari, heldur og söngmeistari og byggingameistari. Hann var mjög seinn að mála, og hætti við opt. Hann málaði í Mailandi hjá Sforza hertoga kvöldmáltiðina, sem er frægt málverk um allan hinn menntaða heim, en var skemmt og eyddist þannig. Þar sýndust allir lærisveinarnir horfa á frelsarann, spyrjandi: er það jeg? — því Kristur er málaður segjandi: sannlega segi jeg yður, einn yðar mun svíkja mig. Michel Angelo Buonarotti var bæði málari, myndasmiður, byggingameistari og skáld, og jafn vel ljetu honum allar listir. Hann fæddist 1474, dó 1574. Hann gjörði Amor úr marmora, og hjeldu menn að það væri fornmynd, svo fögur

þótti myndin, þangað til Michel Angelo lísti sig höfundinn. Hann málaði aldrei nema á nýtt kalk (al fresco). Í kirkju einni í Róm málaði hann dómsdag, sem er harla víðfrægt málverk. Menn dást að flugi ímyndunarafls hans og rjettri setningu alls hjá honum, en þykir hann nokkuð stirður um leið. Hann byggði hina frægu og miklu brú í Feneyjum, er Rialto heitir, sem er 3 faðmar á hæð, og með 14 faðma löngum bogum yfir sjónum. Hann var hófsamur, örlátur, og hinn mesti ágætismaður; svo var hann mikils metinn, að margir höfðingjar, og þar á meðal hinn frægi og mikli verndari allra lista, Cosmo hertogi af Medici, töluðu aldrei við hann, nema berhöfðaðir. — Rafael Sanzio frá Urbino (1483—1520) var svo frægur málari, at hann var kallaður hinn guðdomlegi og ódauðlegi. Hann átti að mála fyrir Júlíus páfa II, en þá var Buonarotti að mála dómsdaginn, og vildi engan láta sjá; en þó komst Rafael að málverkinu, og varð svo hrifinn af tign Michel Angelos, að hann lagði hana í myndir sínar þaðan í frá. Enginn þykir hafa verið eins fullkominn í litardeilingu og litarsetningu, og Tizian Vecellio (1477—1576), því litirnir sýnast að vera töfraðir fram í myndum hans. Allir konungar á hans tíma vildu láta hann mála sig, Hann málaði Súlíman II. Tyrkjakeisara, og Karl Keisara V., svo allir undruðust er sáu myndina; gjörði Karl hann þá að riddara og Pfalzgreifa. Buonarotti undraðist harla mikið myndir Tizians. — Antonio Allegri (Corregio) var hinn fimti meistari á Ítalíu (1494—1534); hann lærði mest af sjálfum sjer, hann kom aldrei til Róm, Flórenz

eða Feneya. Hann málaði ágætlega rökkurbirtu. Hann langaði mjög til að sjá málverk eptir Rafael, sem var 11. árum eldri; þeir voru þá báðir ungir; þegar Coreggio sá það, hrópaði hann: "Anch' io sono pittore" (jeg er líka málari)! Hann átti aldrei bágt, og það er ósönn saga, sem sögð er um hann, að hann hafi hlaupið sig dauðan heim til sín með peninga fyrir málverk, af því hann hafi verið óvanur svo miklu fje (og þó átti það ekki að vera meira en 75 dalir!); hið frægasta málverk hans er í Dresden, það er jólanóttin; þar gengur öll birta út af frelsaranum og lýsir málverkið, en hin seinasta mynd, sem hann gjörði (1533), var mynd Magðalenu, og var sú mynd seld fyrir 85000 rbdl. Hið fræga sænska skáld og sagnaritari, Geijer, segir um Correggio: "her är ej färg, det er fantasiens egen half genomskinliga, skiftande slöja, kastad öfver själfulla gestalter (Skrifter, III, 156 bls.). Mikið fleiri eru og bæði ítalskir málarar og annara landa, og yrði of langt að geta þeirra hjer.

## 10. X. gr., 63. bls.

Sú líking, sem er á milli lita og hljóða að því leyti, að hvorttveggja er framkomið af titringi, hefir einu sinni leitt fram kátlega hugmynd. Þegar Newton fann geislabrotslögin (hjer um bil 1664) og ljóstitringinn, þá var maður uppi í Frakklandi, að nafni Castell; hann var munkur. Hann var frægur náttúrufræðingur, og hefur ritað um þungalögin (traitè de la pesanteur universelle). Hann fjekk þá hugmynd, að gjöra „litahljóma", eða gleðja augað með litunum og breyt-

ingum þeirra, á sama hátt og eyrað gleðst af hljómbreytingunum, og þóttist vera búinn að finna upp verkfæri til þess, en sem var ómögulegt að búa til; hann ritaði um það bók, er heitir Clavecin oculaire, 1725, en hún var rekin af van Mairan. Til er bók um Castell eptir de la Pork: l'esprit, les saillies et singularitès du Père Castell, Paris 1763.

11. XI. gr., 64. hls.

Í ritningunni segir, að Júbal hafi leikið á hörpu eða hljóðfæri, og að Ísraelslýður hafi haft hörpur og ýms önnur hljóðfæri. Það liggur í hlutarins eðli, í náttúru söngsins, sem svo bágt er að lýsa, að fornmenn hafa nefnt þessa list einhvern veginn ógreinilega, og þó fagurlega; sögurnar um Amphion, Arion, o. fl. eru merki til þess, að sönghljómar hafa snemma hrifið anda mannsins. "Hver er sá, sem eigi veit að sönglistin á hinum fornu tímum ekki einungis hafi verið iðkuð, heldur og verið tilbeðin, svo að söngmeistarar voru álitnir jafnir spámönnum og dómurum", segir Qvintilianus, de inst. orat. L. I, 10 bls. Og um næma heyrn í söng talar Cicero í de Officiis L. I, c. 41.; og

— — citharœdus
ridetur, chordâ qui semper oberrat eadem

segir Horatíus, de arte poet., 356 v.

Sagt er að Pythagoras (600. f. Kr.) hafi fundið upp Kanon, þ. e. fleiri samstilltar raddir, sem ein fellur inn á eptir (ekki undir eins) annari; en sönglist seinni alda byrjaði med kirkjusöng, og kom upp í katólsku, og átti Gregor

páfi mikinn hlut að því (590—604). En hin tignarlega kirkjusönglist reiknast að byrja með Giovanni Pietro Aloisio da Palestrina (1529—1594); er dó sem söngmeistari Pjetursskirkjunnar í Róm. Victor Hugo segir um Palestrina:

Puissant Palestrina, vieux maître, vieux génie,
Je vous salue ici, père de l'harmonie,
Car ainsi qu'un grand fleuve où boivent les humains,
Toute cette musique a coulé de vos mains! — —

(sjá "Que la musique date au seizième siècle", í les Rayons et les Ombres, XXXV). Hina fyrstu Opera (XXXII. gr., bls. 63) gjörði Rinuccini, 1597, en Peri gjörði lögin við hana. Það, að hinar fögru listir eru komnar upp í Ítalíu, en þótt þær sjeu nú þar út dánar, liggur að nokkru leyti í trúnni (helzt málaralist og sönglist), að nokkru leyti í því, að Ítalía var svo nærri Grikklandi, sem var vagga allrar fegurðar, og sjálf seinni móðir fegurðarinnar, eptir að Grikkland hafði misst þýðingu sína, og hinar ágætu leifar fornra lista voru þar til eða þar í nánd. Hjer um bil 1600 á Ludovico Viadana að hafa fundið upp Generalbassa, eða grundvallartóna eins lags og lögin fyrir samstillingu þeirra.

### 12. XII. gr., 65. bls.

Jeg vil minnast hjer á einn hlut, sem aðgreinir skáld frá myndasmiðum og málurum. Hinir tveir síðar nefndu eru bundnir við viss augnablik í því verki eða atviki, sem þeir vilja lýsa, en skáldið ekki. Til að mynda, þegar Homer (í Il., IV, 105 o.s.frv.) er að segja frá Pandarusi, þegar hann tók

bogann, og lagði örina á, og dró hann upp, svo broddurinn færðist nær honum (sjálfum) en fjær fjandmanninum; og svo sleppti hann strengnum, en örin þaut með gný og hvini í gegnum loptið, Þetta kalla menn nú líf og hreifingu i framsetningunni; ekkert augnablik er undanfellt, heldur fylgja þau hvað öðru eins og þau hafa í rauninni komið fyrir (eða getað komið fyrir). Ef menn vilja nú sýna þenna hlut með mynd, þá er auðskilið, að það er ómögulegt, að sýna nema eitt augnablik í einu, og þá kemur upp á að taka það merkilegasta, sem er eins og þungamiðja hinna. Sbr. Lessing, Laocoon, oder: über die Grenzen der Mahlerei und Poesie, 78—79, 153—154, 176 blss., o. á fl. st.

13. XIII. gr., 66. bla.

Söngur án orða eru t. a. m. symfóníur, þar eiga hugsanirnar og atburðirnir að taka sig út og skiljast í söngnum út af fyrir sig; eins og þær í kvæðum, með lögum við, eiga að vera honum öldungis samhljóða.

14. XIV. gr., 67. bls.

Sbr.: "Öll list og öll rannsókn, sömuleiðis bæði verk og fyrirtæki, virðist að miða til einhvers góðs" (hafa það fyrir mið, vera skylt því), Aristoteles, Ethica Nicomachia, L. I. c. I: *Πᾶσα τέχνη καὶ πᾶσα μέθοδος, ὁμοίως δὲ πρᾶξίσ τε καὶ προαίρεσις, ἀγαθοῦ τινος εφίεσθαι δόκει.* — Sbr. líka XV. gr. (fyrra hluta hennar).

15. XV. gr., bls. 69.

Það er merkileg skekkja á anda mannsins, þegar hann er svo smekklaus, að hann fer að yrkja út af vísindalegum efnum, t. a. m. jeg hef heyrt getið um hebreska málfræði á íslenzku í ljóðum. Þess vegna segir og Aristoteles, að menn sjeu kallaðir skáld, ekki eptir eptirmynduninni (*μιμησις* þ. e. hugsanir skáldsins og lýsing á þeim, sbr. 1. athugagr. og sb. XXI. gr. og athugagr.), heldur eptir ríminu — *τούς δὲ ἐποποιούς ὀνομάζουσιν, οὐχ ὡς τοὺς κατὰ μίμησιν ποιητὰς, ἀλλὰ κοινῇ κατὰ τὸ μέτρον προσαγορεύοντες*, de poet. c. I. — Svona varð líka miðaldarskáldskapurinn, t. a. m. hjá Maurus Terentianus (frá Kartagó), er orti "de syllabis" og "de metris", málfræðisleg verk og afar smekklaus sem skáldaverk. Enn smekklausari var Ausonius, er lifði undir Valentinusi og Valentinianusi, því hann orti ekki einungis smávers um stjórnartíma rómversku keisaranna (de duodecim caesaribus, per Suetonium Tranquillum scriptis, monosticha) og heimspekilegt kvæði: "ludus septem sapientum" (um hina 7 grisku heimspekinga: Thales, Bias, Pittacus, Periander, Solon, Chilon og Cleobulus), heldur orti hann líka kvæði, sem ekki er annað en rímleikur, þar sem öll versin byrja og enda á einsatkvæðisorði, og byrjar næsta vers á sama orði:

spes nullo finita aevo, cui terminus est mors;
mors avida inferna mergit caligine, quam nox
nox obitura vicem, remeaverit aurea qvum lux o. s. frv.

og líkt gjörði Damasus (frá Spáni; hann dó á dögum Theodosiusar mikla), þar sem hann gjörði um Krist:

**I**n rebus tantis trina coniunctio mund**I**
**E**rigit humanum sensum, laudare venust**E**
**S**ola salus nobis, et mundi summa potesta**S**
**V**enit peccati nodum dissolvere fruct**V**
**S**umma salus cunctis nituit per saecula terri**S**;

en smekklausastur er þó Ausonius, þegar hann finnur upp á að sulla saman grísku og latínu í sama kvæði; í brjefi t. a. m., sem hann kvað til Páls ræðumanns, og byrjar þannig:

*Ἑλλαδικῆς μετέχων μούσης*, Latiaeque camoenae
*Ἀξίῳ Αὐσόνιος* sermone alludo bilingui;
Musae quid facimus? *τί κεναῖσιν ἐπ᾽ ἐλπίσιν αὔτως*
Ludimus *ἀρραδίῃσιν ἐν ἤματι γηράσκοντες.* — — —

Og yfir höfuð sýnist það, sem slíkur andi hafi verið mjög almennur á miðöldunum, og var það og eðlilegt, að spilling sú, sem þá var á tímunum — eins og í hinni fyrstu kristni, hafi haft áhrif á skáldskapinn, og leitt menn frá hinni tignarlegu fegurð Virgilíusar og Hóratsíusar; því þó að Horatsíus yrti heimspekileg kvæði, og Virgilíus (ef Georgica eru ekki heimspekileg, þá eru þau að minnsta kosti búnaðarrit), og Lucretius (de rerum natura), og þó að einstöku skáld væri í fyrstu kristni, sem gjörði dáfalleg kvæði þessarar tegundar (einkum hin idyllisku kvæði eptir Calphurnius Siculus og M. Aurelius Olympius, sem eru mikið falleg — Calphurnius segir:

Ne contemne casas, et pastoralia tecta,
Rusticus est, fateor, sed non est barbarus Idas — —
Qui numerare velit, quam multa sub arbore nostra
Poma legam, citius tenues numerabit arenas — —
(Ecloga II, Crotale, v. 59-60 og 71-72),

þá er eins og skáldin þá hafi helzt hneigst að guðfræðislegum og heimspekilegum efnum; svo sem er t. a. m. Prudentius (Aurelius Pr. Clemens), sem hefur gjört "Psychomachia, id est de compugnantia animi", sem er um baráttu hins illa við hið góða á margan hátt, og ýms önnur þess konar kvæði, og Avitus (sem lifði undir Constantiusi), er hefir gjört: de origine mundi, de peccato originali, de sententia Dei, o. fl., en er þó víða skáldlegur, og þykir mjer ekki ólíklegt, að Milton hafi stutt sig við hann. Allt saman þetta, sem nú hefi jeg sagt, og sem einnig má finna dæmi uppá á seinni tímum, það heimfærir sig til orða Aristoteles, sem fyrr eru nefnd, og til þess, sem Kant segir: Versemageri uden Aand er, paa den anden Side, ei heller Poesie (Anthropologie, overs. af Pflueg, Kh. 1802, S. 256.).

## 16. XVI. gr., 70. bls.

Þrjú sorgarleikaskáld eru fræg hjá Forngrikkjum: 1. Aeschylus, 2. Sophocles, 3. Euripides. — Aechylus var elztur, þungorður og tignarlegur, svo að Qvintilianus segir um hann: sublimis et gravis, et grandiloquus saepe usque að vitium, De inst. or. L. X. c. 1. Hann gjörði 90 sorgarleiki, en 6 eru til. Honum hafði verið spáð því, að hann ætti að deyja

af einhverju sem dytti, svo hann var optast úti, því hann þorði ekki að vera inni; en skjaldbaka, sem örn flaug með í klónum, datt í höfuð honum, svo hann beið bana af (Valerius Maximus, L. IX, c. 12.). Hann var fæddur 525 árum f. Kr. Sofokles, f. 497 f. Kr., sigraði 28. vetra gamall Aeschylus í skáldakeppni; Qvintilianus segir, að margir efist um, hver sje betri, Evripides, eða hann, en almennt er Sophokles álitinn hið fullkomnasta sorgarleikaskáld Forngrikkja; Cicero kallar hann guðdómlegan (divinum, Divin. 1, 25), og Virgilius segir, Ecl. 8, v. 10: Sola Sophocleo tua carmina digna cothurno. Hann dó af gleði yfir sigri, sem hann hafði unnið með skáldalist sinni; hann orti 120 sorgarleiki, og eru sjö til. Euripides er hinn yngsti, f. 480 f. Kr. Hann orti 123 (aðrir segja 75) sorgarleiki, og þykir koma nær vorum tímum. en tveir hinir fyrri. Quintilianus heldur meira upp á hann en Sophokles. Það þykir mönnum merkilegt, hversu skipaðist um æfi þessara manna sín á milli: Aeschylus barðist við Salamis (á móti Xerxes 480 f. Kr.), Sophokles söng í sigursöngvunum yfir þeim bardaga, en Evripides fæddist sömu nóttina.

### 17. XVII. gr., 70. bls.

Hver sá, sem les kvæði Hómers og Virgilíuss, mun sjá, að þar koma aldrei náttúrulýsingar fyrir eingöngu, heldur ætíð sem umgjörð einhvers viðburðar, til þess að láta hann taka sig því betur út. Hinn eiginlegi náttúruskáldskapur (*Naturpoesi*) er seinna upp kominn, þannig er t. a. m. der

Frühling (vorið) eptir Ewald Kleist (1715—1759) og the seasons (árstíðirnar) eptir Thomson (1700—1748). Í þess konar kvæðum ber meira á náttúrunni en á mannlífinu.

18. XVIII. gr., 72. bls.

Það er auðskilið, hvað jeg skil við heimspeki, og menn þurfa heldur ekki annað en að fletta Hegels Encyklopädie til þess að sjá, að enginn hluti mannlegrar þekkingar er henni undan skilinn. En hún tekur ekki allar þessar greinir, nema því að eins, að hún framsetji heild allra vísinda, eða anda mannsins í öllum greinum skoðana hans og hugsana, og guð og náttúruna í allri framkomu þeirra, sem vjer verðum varir við. Sjerstakar greinir kalla menn ekki heimspeki, jafnvel þó að Englendingar kalli bæði reikningslegar og náttúrufræðislegar ritgjörðir heimspekilegar (Philosophical Transactions); en þó kemur það ekki til af öðru en því, að þeir taka þetta orð í víðustu merkingu þess.

19. XIX. gr., 73. bls.

Sú athugagrein, sem setzt þessu til útskýringar, er jarðfræðisleg, og snertir myndun jarðarinnar; en það er í stuttu máli þannig: Jörðin var í fyrstu í þokulegu ástandi (loptleg eða gufuleg) og varð hnöttótt fyrir afl þyngdarinnar. Síðan varð hún þjett og föst, en sjerhver hlutur, sem er að verða þjettur úr gufuástandi eða mótsett, hann hitnar; þess vegna varð jörðin bráðin; síðan kólnaði hún aptur, og þunn skorpa

settist utan á hana. Eptir það komu höfin—líklega af þeirri gufu, er upp hefur stigið, og þjetzt, og sigið síðan niður aptur sem vatn. Í höfunum kom upp lífið eða dýr og jurtir (fyrst sædýr og sæjurtir). En skorpan var þunn, og eldvellan, sem var undir niðri, leitaði útgöngu, hún rauf skorpuna, og brauzt fram. Þá hafa fjöllin ruðst ofan, og möl og sandur fyllt höfin, og höfin hafa blandast með banvænum efnum, svo allt eyddist, sem lífi var gætt. Sandurinn og mölin huldu dýrin og jurtirnar, og þarna urðu þau að steinum, er hjeldu þó sinni fornu mynd, er bæri vott um hið forna líf. Þetta hefur nú orðið átta sinnum á jörðunni, og í hvort sinn hefur allt líf dáið, og fæðst aptur átta sinnum. Menn kalla þetta jarðmyndanir, og þær hafa orðið á ómælilega löngum tíma, sem má sanna á því, að Fourier hefur fundið með reikningum, að jörðin þurfti 2000 ár til þess að kólna um eitt mælistig hita; og enn annað dæmi skal jeg segja. Allir þekkja skifersteininn, sem hafður er til húsa þaka og í skriftöflur. Það má kljúfa hann í svo þunnar flögur, að þær sjást ekki, nema með beztu stækkunarglerum, og eru þetta 400 flögur í töflu, sem er ekki fullur helmingur línu (lína er $\frac{1}{12}$ þumlungs) á þykkt. Sjerhver af þessum flögum myndast á einu sjávarfalli, og taflan hefur þá myndast á 400 sjávarföllum eða 200 dögum. Það eru heill fjöll til af þessum steini, og geta menn nú skilið af þessu dæmi, hversu lengi þau muni hafa verið að myndast. Öll fjöll (og öll jarðarskorpan) eru upp komin á tvennan hátt, annaðhvort af eldi eða sjávargangi, og kallast hin fyrri plutonisk (eða

*vulkansk*) en hin seinni *neptunisk.* Þessar fornleifar dáinna jurta og dýra (steingjörvingar) eru nú leiðtogar jarðfræðinganna um hina löngu leið, sem saga jarðarinnar hefur gengið, og þær segja oss, að átta umbyltingar hafi orðið á jörðunni, sem allt líf hafi dáið í, en fæðst aptur í hvert sinn og kyrrð kom á. Engir steingjörvingar eru til af mönnum, og hafa þeir því ekki skapast fyrr en á þessu seinasta tímabili. Þetta eru lærdómar allra jarðfræðinga seinni aldar, og eru þeir svo ljóslega sannaðir af reynslunni, að jeg þarf ekki að vísa til neinnar bókar um það, en rúmið leyfir mjer ekki að skýra nákvæmar um þenna hlut.

20. XX. gr, 74. bls.

Eg vil minna á Ovid. Metam. L. III, v. 407-412:

Fons erat illimis, nitidis argenteus undis,
Quem neque pastores, neque pastæ in monte capellae
Contigerant, aliudve pecus, quem nulla volucris,
Nec fera turbarat, nec lapsus ab arbore ramus.
Gramen erat circa; quod proximus humor alebat,
Silvaque, sole locum passura tepescere nullo.

Meiningin er á íslenzku hjer um bil þessi:

Djúpr var brunnr,
ok dökkvum fáðr
silfrblikandi
ok svölum unnum;
þann hafði aldri
of aldrdaga

smali litið;
nè hin lagðsæla
geitnahjörð
of haga runnin;
þann hafði aldrei
of aldrdaga
fogl fljúgandi
fjöðrum gárat,
ór gullinfaxi
grönum snortið,
nè akarn, fallið
ór aspar laufi;
var barmr kringdr
boga grænum,
deigju undnum
og daggar rekju;
mátti nè geisli
mærrar sólar
vermandi brjótast
of bjarka rjáfr,
er yl færði
foldar blómi,
ok blikandi ljeki
á blárri lá,

En þessi staður, sem er helgaður af tign einverunnar, fær ekki þýðingu sína, fyrr en í næsta versi: Hic puer (þ. e.

Narcissus), o. s. frv. Og svona er [redacted] fleiri þess konar dæmi, t. a. m. hjá Milton, Bernardin St. Pierre o. fl.

21. XXI. gr., 75. bls.

Sbr.: Jeder Zustand der menschlichen Seele hat irgend eine Parabel in der physischen Schöpfung — — —. Lebhafte Thätigkeit nennen wir Feuer, die Zeit ist ein Strom, der reissend von hinnen rollt; die Ewigkeit ist ein Cirkel; ein Geheimniss hüllt sich in Mitternacht, und die Wahrheit wohnt in der Sonne. (Schiller, philosophische Briefe; Werke in 12 Bänden, Stuttgart und Tübingen 1838, Bd. X, 285). Á þessum grundvelli er líka byggt kvæði Oehlenschlägers: Naturtemperamenter (í Digte, Kbhvn. 1803, bls. 133—139), og þar er þessi mjer óskiljanlega smekkleysa, sem truflar fegurðarleg áhrif seinasta versins:

Naar den sidste kommer!
Naar den store Dommer
knuser eget Værk:
naar han Havet vælter,
naar han Jorden ælter
med sin Arm saa stærk, o. s. frv.

22. XXII. gr., 76. bls.

Því segir Goethe harla fagurlega: "Grau, theurer Freund, ist alle Theorie, doch grün des Lebens goldner Baum", að reynslulaus skoðan er án alls lífs og innra kraptar, og eins

og litarlaus (gráleitur) bjarmi, en reynslan geymir lífsins gullna ljós.

23. XXIII. gr., 76. bls.

Sbr. hjer um 15. athgr. XV. gr., 69. bls.

24. XXIV. gr., 77. bls.

Það eru margir gáfumenn, sem hafa flestar stefnur andans sameinaðar, svona var Michel Angelo (Buonarotti) sbr. 9. athgr., Goethe, Herder, Cuvier o. fl.

25. XXIV. gr., 77. bls.

Aristoteles heimtar um fram allar hluti af skáldinu, að hann framsetji hlutina fyrir augun (svo þeir eins og sjáist; *δεῖ δὲ τοῦς μύθους συνιστάναι καὶ τῃ χέξει συναπεργάζεσθαι, ὅτι μάλιστα πρό ομμάτων τιθέμενον* de poët. c. XVII). Eins og sjerhver lýsing, hvort hún er heldur skáldleg eða vísindaleg, heimtar rjett samband hugsananna, eins útheimtist líka, að menn hugsi rjett og vel um þær, þegar menn lesa þær, því þá setja menn sig inn í anda þess, sem ritaði hugsunina.

26. XXIV. gr., 77. bls.

Allir vita, að Jean Paul var mikið skáld, en þó með sínum hætti, því hann hefur ekkert vers gjört. Þannig eru og að miklu leyti mörg romanaskáld; Walter Scott t. a. m., því þó að hann hafi gjört kvæði, þá er óbundin ræða hinn

eiginlegi búningur skáldskapar hans. Það er líka sagt, að Virgilíus hafi ekki getað ritað óbjagaða setningu í óbundnum stíl, og að Cicero hafi gjört leirburð, í hvert sinn, er hann reyndi til að yrkja.

27. XXVI. gr., 79. bls.

Það er auðskilið, að skáldskaparfegurðin missir mikið, þegar lagið er ósamkvæmt efninu. Hvað ætli væri ekki að heyra hersöng eða samsætissöng undir líksöngslagi? Það væri rjett eins, og: "Manns ef höfði málara pensill merar tengdan svíra fengi" (Hor. de arte poet., útl. af B. Gröndal, assessor). Sá, sem vjer þekkjum bezt af þeim mönnum, sem hafa haft þá gáfu, að geta látið orðin hljóðin og vera í öldungis rjettu hlutfalli hvað við annað, er Karl Michael Bellmann, sænskur, fæddur 1740, dáinn 1795. Hann orti og söng á hörpu um leið, og eru bæði kvæði hans og lög í miklu gengi, og munu verða, meðan nokkuð þykir til skáldskapar koma, því þó að þau sjeu að mestu leyti í drykkjuvísna formi, þá heyrist þó undir niðri djúp, en nokkuð sorgleg, skoðun á mannlífinu.

28. XXVII. gr., 81. bls.

Ekki þurfa menn að hugsa, að slíkt verði framkvæmt án undirbúnings og vana. Því sú gáfa, að koma strax í fyrsta sinn fram með meistaraverk, er engum gefin. "Ars est longa vita brevis" — listin er löng, það er lengi verið að læra hana — því hinir frægustu menn, eins og t. a. m.

Mozart, sem þó eru sjaldgæfar undantekningar, þeir þurftu þó að temja sjer listina, þó tíminn til þess væri styttri hjá þeim, en öðrum mönnum, Það hafa komið fram "improvisatorar" víðar en á Ítalíu, og vita menn um þá, að þeir ekki einungis hafa haft mikinn og örðugan undirbúning, heldur og einnig gjört list sína að handverki og selt hana fyrir fje. Það er líka undarleg hugmynd, sem margir menn hafa um skáldin; þeir halda, að þau eigi að vera í nokkurs konar vitleysu, meðan þau yrkja (í *Digterfuror*), og án efa segir Hóratíus í spaugi einu þessi orð:

Ennius ipse pater nunquam nisi potus að arma
prosiluit dicenda —

og skil jeg ekki í því, að menn þurfi að fylla sig, eða að setja anda sinn í óeðlilegt ástand, til þess að geta ort, en þótt sagt sje um Schiller, að hann hafi þurft þess. Þess konar lýsir veiklun andans, því það er eðlilegt, að þegar andinn ætlar að hefja sig á æðra stig, en daglegt líf er á, þá verður hann að hafa sjálfan sig og alla krapta sína fullkomlega í valdi sínu; og er það ekki eðlilegra, að hann geti það með kröptum frá sjálfum sjer, úr sínu eigin djúpi, en með æsandi meðölum utan frá? — Nokkuð öðru máli er að gegna um það, að menn geta vanið sig á, að vera jafn vel fyrirkallaðir, svo sem Goethe, er sagt er um, að hann hafi verið búinn að temja sjer svo skáldskaparlistina, að hann gat ort, hversu sem ástatt var, og byrjað á verki þegar hann vildi; sb. líka hjer: Hjort, tydsk Læsebog, I,

pag. 280—282. En þó má segja um mörg verk hins mikla og makafáa skálds, að misjafn sauður er í mörgu fje.

29. XXIX. gr., 83. bls.

Það er nokkur munur á aðfinningum eða dómum (*Kritik*) um skáldskap, og um vísindaleg efni. Vísindamennirnir styðjast við áþreifanlegan sannleikann; þeir fara eptir reynslunni, og eru því svo að segja "*practisk-objective*"; en skáldadómendurnir hafa yfir höfuð ekki annað að styðjast við, en smekk sinn og tilfinningu; þess vegna er allt öðru máli að gegna um þá, en vísindamennina. Mest furðar mig á, þegar menn eru að tala um og fara eptir, hvað "kritikin" segir, eins og kritikin sje allsherjardómur, sem sje viss og með öllu órækur; menn ímynda sjer hana (þ. e. í útlöndum, því hjer á landi þekkja menn lítið til hennar) eins og einhverja ósýnlega veru, sem sje allstaðar nálæg, eins og guð, og sjái allt, eins og hann; svo að, þegar eitthvert rit kemur út, og það er rifið niður, eða því er hrósað í dagblaði, þá segja menn: ja, það er ónýt bók, svona dæmir kritikin um hana (eða þá hið gagnstæða, ef bókinni er hrósað) — þar sem þó þessi kritik optast nær er ekki annað, en samanhroðað samsull úr einhverjum einum (kannske keyptum) dóna, sem fenginn er til að hrósa bókinni, annaðhvort fyrir sjálfan sig eða aðra, eða forleggjarann sjálfan, svo að hún gangi út, eða hann rífur hana niður af öfund eða rangri og illviljaðri skoðun. Þó segi jeg ekki hjer með, að engin

bók sje til, sem verðskuldi, að hún sje hindruð, því langt of margir rita, og margt er til, sem betur væri óritað.

30. XXX. gr., 84. bls.

Þetta er eðlileg afleiðing þess, sem sagt er á bls. 84; og þó hef jeg opt heyrt kvartanir um ýmist, sem væri "óþjóðlegt". Aldrei hefir neinu útlendu skáldi verið brugðið um það, þó yrkisefni hans ekki væri undir komið í föðurlandi hans; ætli Shakspeare hafi ekki sett sig inn í anda Rómverja, þegar hann orti Julius Cæsar, eitt hið mesta meistaraverk skáldlegrar fegurðar, og ótal dæmi mætti finna hjer um. Og Goethe — ætli hann hafi ekki sett sig inn í anda Hómers, þegar hann gjörði Hermann og Dorothea? og það svo meistaralega, að kvæðið er furðuverk. En þjóð vor er ekki komin á þetta sjónarmið, er hún þarf að vera á, til þess að hafa vit á þees konar verkum; til þess að skilja þau, þarf menntun, sem almenningur engrar þjóðar aldrei nær (og vjer eigum ekkert "Publicum"). — Til eru líka kvæði, sem ekki snerta neinn einstakan eða tiltekinn stað, svo sem hið heimspekilega, en þungskilda kvæði Shelleys: Queen Mab (og líka eptir hugmyndinni kvæði Miltons um hina misstu Paradís; Youngs Nights Thoughts, o. fl.).

31. XXX. gr. 85. bls.

Á þessu sjónarmiði voru þeir, sem jeg hefi nefnt í næstu athgr. á undan. Það er líka auðskilið, að þegar skáldið tekur fyrir að yrkja um eitthvert efni, þá hlýtur

hann að fylgja anda þeirra manna og þeirra landa, sem er sjónarsvið yrkisefnis hans, því annars mundi skáldskapur hans verða smekkleysa ein. Er það t. a. m. ekki smekkleysa, í formálanum við Gylfaginning, að ímynda sjer, að Thracia sje sama sem Þrúðheimur, Tros sama sem Þór (Sn. E. bls. 150; á 143 bls. er Jupiter látinn vera Þór) o. s. frv.? — Við það eyðileggst hin gríska fegurð fyrir hinum dimmu jötnamyndum hinna norrænu goða. — Þetta sjónarmið, sem jeg hefi opt drepið á, er "*Kosmopolitisme*" (en menn mega ekki blanda honum saman við *Indifferentisme*, þar sem menn skeyta ekki um stjórnarform eða trú, heldur láta sig allt einu gilda). Ef frelsið fer vaxandi, og menn hafa vit á að fara rjett með það, og skilja loksins, hvað hið sanna frelsi sje, þá munu líka þjóðirnar sameinast betur og nánar. Veraldarsagan sækir fram eptir föstum lögum, en öldugangur hennar er svo ókyrr, að augu vor eru ekki fær um að fylgja honum fyrr en eptir langan aldur, og þó ekki að fullu og öllu, því margir samtengingarliðir atburðanna hverfa oss alveg. Menntunin breytir þjóðunum og lagar þær, hreinsar þær og kemur inn hjá þeim þeirri hugsun, að vinátta og bróðurlegt samband sje undirstaða velgengni mannanna. Hvað vitum vjer um, nema sá tími komi, þegar — ekki ein þjóð — heldur eitt þjóðasamband verður á jörðunni, hreinsað fyrir krapt menntunarinnar? "Vjer vorum frjáls náttúra, og menntun vor á að leiða oss aptur til náttúrunnar á vegi skynseminnar og frelsisins". segir

Schiller (Ueber naive und sentimentalische Dichtuug. Werke XII, 169).

32. XXXI. gr., 85. bls.

Sbr. Hertha, et Maanedskrift, 1 B. Kh. 1826. Tégners Afskedstale til de Studerende i Lund, 1824. bls. 435—446. Ekki allfáir hafa lagt sig eptir að kveða að fornum sið af Íslendingum, svo sem Eggert Ólafsson, Johnsonius; Benedict Gröndal (assessor), Gísli Konráðsson (t. a. m. í útleggingu hans á Saxo Grammatikus, sem er óprentuð).

33. XXXII. gr., 88. bls..

Þessi skipting er byggð á framsókn hlutanna, á byrjun þeirra, framgangi og enda. Mjög ágætt verk hjer að lútandi er Lessings Dramaturgie.

34. XXXII. gr., 90. bls.

Hjer um má samanbera; Herder, Stimmen der Völker, (formálana); Schiern, Europas Folkestammer, I, 60 bls.; Annaler for nordisk Oldkyndighed, 1844—1845. N. M. Petersen, den nordiske Oldtids Betydning for Nutiden og get jeg ekki citerað einstakan stað, því ritgjörðin er öll svo ágæt og fögur, hún nær frá 1—146. bls.

35. XXXII. gr., 90 bls.

Þannig er *Romanze*, er fyrrum var sjer í lagi lyrisk (hjá Spánverjum og Þjóðverjum — Bürger), en varð seinna

*episk* (hjá Uhland t. a. m.), og stundum hvorttveggja (t. a. m. Cid eptir Herder). *Ballade* er ekki eins hetjuleg. *Lyriskt Drama* er leikrit með mörgum kvæðum í, og ekki eins fast ákvarðað, og hin eiginlegu leikrit. *Metaphysiskt Drama* er leikrit, þar sem hugmyndaaflið ekkert skeytir um hið verulega; svo sem Faust (eptir Goethe), Manfred (eptir Byron), Aladin (eptir Oehlenschläger); hjer undir heyrir og "Þúsund og ein nótt". *Lyriskt Epos* er t. a. m. Childe Harold, þar sem Byron kemur opt sjálfur fram undir öðru nafni, t. a. m. í "Good night" (í Canto I, á eptir Stanza XIII), og seinast í Canto IV. *Idylle* lýsir hinu einfalda náttúru- og sveitalífi; Theokritus var frægast Idylluskáld hjá Forngrikkjum; eptir honum stældi Virgilíus (í Ekloga og Bukolica); seinna komu upp fleiri skáld í þessari grein. *Elegie* er eins konar angurblíðukvak, blendingur sorgar og gleði, eins og sjest á kvæðum Catullusar og Ovidiusar. *Heroide* er *Elegia* í brjefs formi, eins og Heroidur Ovidiusar, er Aulus Sabinus svaraði. Pópe er frægt Heroiduskáld (Heloise og Abelard).

36. XXXII. gr., 91. bls.

Strengleikar heita gamlar norrænar riddarasögur eða kvæði í óbundnum stíl, sem eru, ásamt fleirum slíkum sögum, komnar á miðöldunum til norðurlanda (líka Sagan af Flóres og Blankiflúr, pr. í Annaler for nordisk Oldkyndighed).

# LEIÐRJETTING.

Fyrir aptan orðið rímara í 4. línu í XXIII. gr. vantar töluna[23], sem vísar aptur í athugasemdirnar, og fyrir aptan orðin til samans í 4. l. í XXIV. gr. vantar töluna[24].

